þad sér, fyrir aud og ríkdóms gædi, og vita' ei hverr þad hljóta skal; Herra! kéñ mér mitt daga tal, hjá þér svo hugg-un nædi.

5. O Gud! þú ert mín adstod best, á þig minn andi treystir; mín er sú bón og þörfin mest, mig frá óförum leysir; hjálp mér í daudans dapri pín, Drottiñ! vard-veittú sálu mín, og til lífs mig uppreisir.

## No. 234.

Lagid: Heimsins Stýrir forsjón fasta.

Vonin kjæra, eilífd eina, arfleifd mín þá vard eg til; glæpa næra glód ó-hreina, en gæta þín, er dára spil; hverr vill þar um hugsa þjód, og helgunar ei velja slód, sem til vísta gledi greidist, gjörvöll lyst þá jardar eydist.

2. A Gud þig! minn andi kallar, á-heyrn ljá nú bænum mín, aldrei mig lát aumann falla, ordi frá og bodum þín; fallinn reis mig fætur á, fljótt afleys og miskun tjá; fyrir hinna seku sauda, syndir minn leid Jesús dauda.

3. Veit mér brúka vel í hagiñ, vænstu nádar géfnn tíd, svo vidljúka sérhvern daginn, sjáist dáda verkin frid; ad gud-rækinn, aldrei eg, útaf krækí dygda veg,

inn í blíða eilífð lánga, ugglaus síðan vil eg gánga.

4. Fær þá stríð í friði enda, forn ánandin kyrrð í ró; enginn qvíði' og klögun henda, kann hvar dauðinn aldrei bjó, ummindaður, alheill þá, eg hug-glaður loksins má, Frelsarann í fegurð líta, fundinn þann ei tímar slíta.

## No. 235.

Lagið: Far heimur, far sæll!

Mér, heimur! far frá, því nú þreytist sál mín að sveyma þér hjá, og glaumur þinn metandi eckl neitt er, mót unaðsemd himins, sem lofuð er mér, mig heim þángað lángar, því hér leiðast fer, :,: hégóminn einber. :,:

2. Seig mér satt: hvað er, sem heimurinn fláráði heilla nafn lér? reykandi skuggi og skýa-flug bradt, skjótt uppþotin bóla, sem hjaðnaði' og datt; í sút vafin missýning sannkölluð hér, :,: hégóminn einber. :,:

3. Hvað auðurinn er? sá afguð, sem dárunum dýrmæti ljer, og tældi svo marga mjög frómleika frá, en feck þó ei mettað þann fýsti því ná; þú, ríkdómur! ert, eins og reyniſt þú mér, :,: hégóminn einber. :,:

4. Hvad gyldir heims makt, hans ó- skapa veldi, hans oflæti stakt? hvad opt er þad ofundad, offókt og hrjád? hvad opt glatad, umbilt og hatad og smád? þinn skérfur, þú dárlega drambsemi! er, :,: hé- góminn einber. :,:

5. Abl, aldur, hvad er? hvad snilli? hvad heilbrigdi' og heppileg kjor? hvad unnusta mannanna, adstod og rád? hvad erfidis ákafi, mæda, mannudád? hvad er þad, nær daudinn oss útkalla fer? :,: hé- góminn einber. :,:

6. Þvi far þinn veg nú, þú heimur fallvalti! og hjálp þín ótrú; eg snú hug til himins og hann stunda á, til Herra míns Jesú, minn Frelsara sjá; þar hjá þeim útvoldu'hañ hét og bjó mér, :,: vist sjálfum med sér. :,:

7. Þar mun eg þad fá, sem hér á jord- unni'ei heyrdi né sá, þann ríkdóm, þá vird- ing, sem varanleg er, þá vegsemd og gledi, sem aldreji þver, þá einkis eg sakna, því óviñ gjorvallt, þar Gud er mér allt, minn Gud er mér allt.

8. Sæl verdur sú stund, eg sídasta burt- farar sætañ fæ blund, nær sála mín dupt- inn sig skilur frá, til síns Guds og Skap- ara upplída má; sú komi sæl stundin! mér

komi'á hans fund! kom dauda kjær stund! kom mér á Guds fund!

# 9. Fyrirbænir.

## a) Fyrir øllum yfir høfud.

### No. 236.

Med sínu lagi.

Géf þinni kristni gódann frid, ó Gud! um allar tídir, því eckért høfum vér annad lid, einn þú fyrir oss strídir, sjálfur Gud vor sannur Fadir!

2. Þú einn heilagann hug og rád, og hreint framferdi veitir; géf oss þad hjarta' af þinni nád, þíns ords alleina leiti, eptir því í øllu breyti.

3. Þó vor misgjørd sé mørg og stór, med nád vyrdstú þad bæta, í líkn og miskun lít til vor, lát oss ei hegníng sæta, en fyri Jesúm mildi mæta.

4. Um þad bidjum vér øll þín børn, ad frid vilijir oss géfa, med þinni hønd og mildri vørn, móti óvinum oss hlífa, þér til lofs svo mættum lifa.

## No. 237.

Lagid: Hjartad, bánkar, hugur, sinni.

Gud! þú kannt og vilt oss veita, vora þad sem bætir þörf, um adstod þína ecki neita, allra blessa kall og störf! auki krapta oss þín nád, ad ebla brædra heill med dád, ad vér gøgnumst æ sem flestum, unn oss, Gud! vér hug á festum.

2. Kórónu þeim þú baudst ad bera, byrdi létta gjørdu hans, þér til heidurs hañ lát vera, heill ríkis og Islands! fús sérhverjum géfi gaum, sem gjørir rétt og sannleiks taum, dregur, ebli lán svo lýda; laungun hans sé þér ad hlýda.

3. Valdstjórn bjóda vyrdstú á landi, vitsku præda rétt á mid, ad vernda góda', en varna grandi', veit hjálprædi þitt og lid; þeim oss dygda lýsa' á leid, léna trygd, en forda neyd; sín embætti veit þeim vanda, vel af mætti' og nád þíns anda.

4. Blessa þá, sem bygdir yrkja, blessa þeirra sveita' í frid, med vellídun vyrdst þá styrkja, vid forsjálni, heidur, grid, hvern ærlegañ ydju-mañ, í stétt sinni blessa hañ! lát þad vera sérhvers sóma, sæmd vors ebla lands og blóma.

5. Gud! þitt ord og andi leidi, oss á dygda vegi hér, adstod nema oss þú greidir, eckért megnad fáum vér; þér ad þóknast uñ þú oss, svo ödlast mættum dýrdar hnoss, þad trúlyndum þínum géfa, þjónum sídar munt án efa.

## No. 238.

Lagid: Heimsins Stýrir forsjón fasta.

Fadir! þenk til þeirra', er gráta, þúnga mótgángs undir hér; virdstú krapt þinn vera láta, vægd og styrk þeim naudir ber; allra kjör um lá og lönd, leika, Gud! í þinni hönd, þú kannt græda, þú kañt særa, þú kañt hriggja' og endurnæra.

2. Í verndar þinnar skjóli' og skugga, skulum vér lifa sorga frí, fyrir ótta, fyrir ugga, fridi gódum jafnan í. Gud! þín miskun eilíf er; eins framvegis géf oss hér, allt hvad þurfum og til þinnar, á-valt þénar dýrdarinnar.

## No. 239.

Lagid: Heidrum vér Gud af huga' og sál'.

Vors Herra Jesú verndin blíd, veri med oss á hverri tíd; Gud huggi þá, sem hrigdin slær, hvert þeir eru fjær eda nær; kristnina efli og auki vid, yfirvöldunum

sendi lid, hann géfi oss øllum himna frid!

## No. 240.

Lagid: Gjøtvøll kristnin skal gledjast nú.

Hín hátign, Gud! um eilífd er, af dýrd-ar-stól himnaña, í nád til jardar samt þú sjer, sendir heill bygdum manna; æ vér þig bidjum allir nú, ad vort fødur-land blessir þú, veitir frid, velferd sanna.

2. Géf vorum Kongi gjæfu' og rád, gagn stunda landa sinna, ad elska frid en efla dád, og þegnum heill ávinna; kall sitt ad rækja kenn svo hér, kórónu'ad lífs í dýrd med þér, veitist og vegsemd finna.

3. Vors Kóngs Rádgjøfum veittu nád, vísdóm og adstod sanna, og stjórna þeirra ydu og dád, øllum til gagnsemd-anna, svo allir gódir eignist frid, og med réttvísi geymist vid, áráfum illra manna.

4. Fadir lát rigna foldu á, frjófgun-ar-krapt af hædum, umgird vort land og geym þad frá, grimmum hernadi' og skjædum; Gud! þú med speki gjørir allt, géf oss ad treysta þér ávallt, bædi í med-læti' og mædum.

5. Géf þegni hverjum gédjist hér, gaum skyldu sinni'ad veita, á sjó og landi brauds

sem ber, og blessunar þiñar leita; ástundi svo med ást og dád, adstod, huggun og þarfleg rád, voludum jafnan veita.

6. Láttú oss, Drottinn! líkjast þér, og líf vort dygdum prýda, géf øllu því, sem gjöra ber, góda framqvæmd, heill blída, fódurland rétt uns finnum vér, hvar fáum betri styrk enn hér, þér, Fadir! þjóna' og hlýda.

## No. 241.

Lagid: Gudi lof skal ønd mín inna.

Frid veittú voru landi, voldugi Fadir! fyrr og síd; Yfirmoñum øllu grandi, og undirgéfnum forda lýd. Þá lídur ad lífsins enda, og linnir heimsins stund, géf oss þiñ guddóms anda, sem gledji vora lund! vort athvarf allt í heimi, og adstod Drottinn er, hans hønd oss hlífi' og geymi, vid háska' og naudum hér.

## No. 242.

Lagid: Sólin upprunnin er.

Lát landid frjófgun fá, fulla og sæta; réttinn sinn framgáng sjá, og sannleiks gæta. Gud géfi mér, minn deildañ verd á medan, og til þess eg vid grof, afleggg miñ ferda staf, og held burt hédan!

## No. 243.

Lagid: Kristnir menn! umfram allar tídir.

Kóngsins lífdagar fjølgun fái, fyrri og síd í blessun hér; hans stjórn lucku og heillum nái, hans kyn blómgist, uns tíd øll þver! ó Gud vor Fadir! oss heyr nú, vér æskjum þess hann blessir þú!

2. Umkríng hans sæti sífeldt skíni, sannleiki og náð réttlæti med, þín adstod hañ med heidri krýni, heill og fridur hans lífgi géd; ó Gud vor Fadir! oss heyr nú, vér æskjum þess hann blessir þú.

## No. 244.

Lagid: Rís upp, mín sál! og bregd nú blundi. →

Heidur, frid, lucku, lán og gædi, legg yfir þann, sem Kóngur er, landa-stjórn hans og hjarta bædi, himneski Kóngur! líki þér; landa búum hans legg þau ráð, ad lucku fái' og gjæfu náð,

---

# b) A Strids-tímum.

## No. 245.

Lagid: Væri nú Gud oss ecki hjá.

Sé Gud med oss, vér engri þá, ólucku þurfum qvída, hann má traust setja

hverr einn á, í brigðum mæðu tída, hann sá gódi Gud hjá oss er, hann frelsar oss, því skulum vér, hans gladir hjálpar bída.

2. O Gud! þú hefir opt þad gjört, er menn síst vænta kunnu, já, opt þá ský umkríngdu svört, iñdælust ljós uppruñu; von þegar komin' var í þrot, vér þinnar hjálpar fengum not, mein farga oss ei uñu.

3. Vér bidjum þig, vor blídi Gud! bæn vora heyr, sem fadir! set takmark strídi, sorg og naud, send oss frid, svo ad gladir, þitt frelsi sjáum, þitt í hús, þacklátur gángi hverr og fús, þér prís ad hefja hradir.

---

Séf þinni kristni gódann frid. (sjá No. 236).

---

## c) J skjædum stór-sóttum.

### No. 246.

Lagid: Værl nú Gud oss ecki hjá.

O Gud! hvers nád og adstod blíd, er þeim vís, sem þig bidur, þú sendir oss nú sorgar tíd, svo burt vor hverfur fridur; ángistin girdir um oss því, all-

morgum daudinn kastar í, grafar nid-myrkur nidur.

2. Oss nidur-lúta' í naudum því, nýar hörmúngar græta, daudanum hljótum hardtnær í, hverju fótspori mæta, einn vinur flýa annann má, og bródir fordast bródur sjá, síns lífs sjálfur ad gjæta.

3. En verdi, ó Gud! vilji þinn, var hañ og er þad besta; vægdar þig bidjum vér hvert sinn, von hölfum á þér festa, þó ædi daudiñ eñ á ný, öllu til góda stýrir því, þín fodur-mildin mesta.

4. Þeirra styrki þinn andi önd, er hédan sviptast ega, rétt þeim í dauda hjálpar-hönd, ad hafi trú ódeiga; von um fullsælu vek þeim hjá, værd andar lát þeim géfast, þá, í fridi fara mega.

5. O Drottinn! minnstú mæddra vel, mildi gled alla þinni, veit oss hrein-trúad hjarta-þel, hrind frá oss efa sinni; géf ad í qvöl og kjæti vér, kappkostum ad oss daudiñ hér, vidbúna vel æ finni.



## b) Í Landplágum.

### No. 247.

Lagid: Jesús Kristur er vor Frelsari.

Réttláti Gud! hvers hegníng strída, hrædilegt er ad sjá og lída; í þinni hendi er himin stór, hafid, jord, eldíng, vindar, snjór.

2. Hvad sem þú býdur, hlýdir, kémur, hvad þú vilt afmá sjest ei fremur, árscæld, hallæri, audnu, pín, almáttug stýrir forsjón þín.

3. Æ Gud! sjá nú hvad yfir dynur, undir hormúngum land vort stynur, þín bornin qveina' og barma sér, bodi daudans því geist umfer.

4. Monnum og sképnum missist fridur, menn og sképnur því stynja vidur, hverttveggja þetta, Herra! þó, hondin almáttug þín tilbjó.

5. Lifandi Gud! sem lífid lénar, og lífs heill vorri sjer hvad þénar, minnst vor í nád og vægd oss sýn, vér treystum uppá gædsku þín.

6. Bjód þú land-plágum, hættu, hrigdum, ad hverfa burt fra vorum

bygdum, fodurland vort og fólk allt hér, Fadir í miskun tak ad þér.

7. Bjód himni, jørd og hafi líka, Herra! oss færa blessun ríka, forþéntu straffi væg oss vid, vort land umgirdtú þínum frid'.

8. Géf oss framfør í gódum dygdum, gjæt vor vid syndum, qvøl og hrigdum, verud þín oss geymi' um vøtn og lønd, vér selum oss í þína hønd.

---

## e) Fyrir Deyandi.

### No. 248.

Lagid: Øldúngar Júda annars dags.

Heim, sem daudinn nálægist nú, nádugi Drottinn! hjálpa þú, ó hvad hørmúngin hardt þá skér, hvad jardneskt er, eckért þá framar huggar hér.

2. Þinn kraptur styrki þeirra lund, sem þúngann báru dags um stund, nú er lífs dagur enda á, æ! láttú þá, qvøldverdir gódar, Fadir! fá.

3. Enginn svo hladist eymdum hér, ad vonar-sjónir missi' á þér; send veik-

um hægd og legg þú lid, lát sálar-frid, lina ofraun og géfa grid.

4. Æ! lát þá minnast á þad vel, ad nú sídasta' er rauna jel, og hvern einn líka hyggja' ad því, ad heimi í, andstreymi vid er enginn frí.

5. Þitt ord þeim sýni sannleik þann, sigur á deyd ad Jesús vann, og ad oss tilbjó samvist sá, þér sjálfum hjá; géf þeim traust setja allt þar á.

6. Veit þeim øbluga von og traust, um vegsemd med þér endalaust, og þá farsæld, sem er þér hjá, þitt auglit sjá, og meiri æ fullkomnun fá.

7. Vert þeirra Gud og géf þeim nád, gjæd þá vid andlát styrk og dád; líkhamans þegar bresta bønd, í blída hønd, þína, Gud! medtak þeirra ønd.



# III. Sálmar til vissra Tíma.

## 1. Ara-skipti.

Eiñ Gud þér allir prísid. (sjá No. 31).

No. 249.

Med sínu lagi.

Guds vors nú gædsku prísum, gódir rétt-kristnir menn! med saungum líkn hans lýsum, lof segjum honum enn, fulltingi fyrir sitt, sem hefir af gædsku sinni, hverr einn trúl'eg þad finni, á þessu ári' oss veitt.

2. Miskunsemd hans og mildi, vér minnumst gladir á, og virdum víst, sem skyldi, hans velgjörninga þá, er hann nú þetta ár, oss géfid hefir öllum, konum bædi og köllum, og kunnugt fyrir oss stár.

3. Voldugur Drottinn veitti, voru' á landi frid, allt fólkid einninn fæddi, og gaf hvad þurfti vid, af hans miskunar hönd, því bygd og bæum vildi, blessun fadirinn mildi, géfa um gjörvallt land.

4. Oss hefir vardveitt alla, af fødurlegri náð, ef vildi' hann yfir oss falla, sem vor er morg ódáð, med jafnri mædu' og pín, fyrir laungu værum vér deyddir, af sorg og eymdum eyddir, hverr fyrir syndir sín.

5. Sí-ljúfur svo sem Fadir, svo er hann mildur víst, vér fáum frelsi gladir, fyrir vorn Drottinn Krist, med réttu traust'og trú; hañ af oss sviptir syndum, setur skamt brigdar-stundum, vesslum hjálp viss er sú.

6. Allt gott þú einn oss géfur, ó Gud vor himnum á! allt hvad andardrátt hefur, allt skal þér lofgjørd tjá! í Jesú nafni nú, þín bidja børn eñ fremur: blessa árid, sem kémur, allra þorf uppfylltú. :,: Í Jesú nafni nú, þín bidja børn eñ fremur: blessa árid, sem kémur, allra þorf uppfylltú. :,:

## No. 250.

Lagid: Herra! þér skal heidur og lotníng greida.

Eitt á enda ár vors lífs er runnid, enn oss sendast Guds af nádar-brunni, líkn, hjálprædi, lífsins gjædi, lán og nædi, hvarf þad hræda kunni.

2. Hjartad dansi, honum lofgjörd inni, hátt til ansi, túnga, mannvit, sinni, hverr med gáti, gofgi kátur, Guds nád játi, lída' ei láti' úr minni.

3. Honum sálin hlýdni sverji vísa, hans vort málid, æ skal gjædsku prísa; vort þacklæti, veri' hans mæta, vilja' ad gjæta, ást svo ætíd lýsa.

4. Honum selum hagsæld árs komanda; hañ sjer vel um oss, hvad mun þá granda? oss hañ seka, ei útrekur, allañ speki, hans burthrekur vanda.

5. Alvøld mildin, øllu þú sem rædur! enn gódvildar sed oss þinnar gjædum; audga dygdum, hamla hrigdum, hrind burt stygdum, bú oss bygd í hædum!

## No. 251.

Lagid: Lofid Gud, lofid hann hverr, sem kann.

Eitt nú er, útrunnid lífsins ár; lof sé þér, lífs Herra'og fadir klár! allt þig lofar endalaust, anda sem hrærir, vetur, sumar, vor og haust, vegsemd þér færir; hver dags sól, heill veita'og gledi, heims um ból, hvervetna rédi, líkn og skjól, ljúfur oss tédi, Gud, hvers mildi gøsgum vér. :,: Tíd og eilífd heidri hann, hans kjærleik prísi. :,:

2. Greiða ber, Guð! fyrir liðna tíð, þackir þér, þín geymdi' oss náðin blíð. Guð og Faðir vor þú varst, varnaðir grandi, umsjón fyrir öllu barst, í voru landi; frjófsemd af, fylltir og gróða, enn létst haf, auðlegð frambjóða, friður gaf, oss farsæld góða, allt í settri orðu stóð; :,: allt forsjónar auga þitt, áleit í mildi. :,:

3. Allir nú, enn felum, Drottinn! þér, allt hvað þú, oss hefir géfið hér, önd, líkhama, auðnu, líf, oll vor heimkynni, Guð, vort athvarf, hjálp og hlíf! hönd geym oss þinni. Vel munt því, vor Guð! oss leiða, björg á ný, bygðum til-reiða, landi í, líkn, heill útbreiða, þér fulltreystum allir enn, :,: að þú blessir árið nýtt, oss sem nú géfur. :,:

4. Útbreið þú, ó Drottinn! krapti með, traust og trú, til þín, að fáum sjeð, orða þinna ljóma ljós, leið villtum beina; dygð og vitska vort sé hrós, vegsemdin eina! géf oss frið, góðum að halda; send oss lið, sitt hverjum gjalda; alla við, ást, náð margfalda; af jörð' og hafi brauði' út-být, :,: hvern með trú sín stunda störf, styrk, Guð! og blessa. :,:

5. Kóngs vors lond, krýn farsæld, Drottinn kjær! þín sé hond, þeim æ til verndar nær; Valdsmenn þeirra vitsku prýd, veit styrk af hædum, ad farsæla landa lýd, létta burt mædum! géf þeim sá, gledi þá kanna, ávoxt sjá, embættis aña, blessun sá, um bygdir maña; hvers eins blessa stétt og stand, :,: eiñ hvad bera' ei orka má, adstodi fleiri. :,:

6. Géf oss nád, Gud! medan lifum hér, vort allt rád, vanda til dýrdar þér: oss í dygdum efli sú, afstýri follum, í Jesú bidjum nafni nú, neyd hrind af ollum. Íslands lýd, almáttug leidi, forsjón blíd; farsæld útbreidi, árs hver tíd, óhopp hjásneydi. Gud! þig heidri gjorvoll lond! :,: þig vegsami ár og old, allur lífs skarinn! :,:

## No. 252,

Lagid: Gædsku Guds vér prísum.

Hoek, gódi Gud! vér færum, med gledisaungum þér, hátídar hljómi skjærum, hugkátir tjáumst vér; heyr med velþóknun þú, Fadir! þad lof, er ljódum, lypt muñs og sálar hljódum, á nýu ári nú.

2. Þú gafst oss lands og lýda, ljúfann, ó Herra! frid, og lagdir blessun blída,

bjargrædi sérhvert vid; þitt væga vis-dóms rád, oss hefir ætíd leidda, og alla stigu greidda, med fødur mjúkri nád.

3. Þegar til þín oss snérum, þín miskun tók oss vid; af himni hrestir erum, huggun þú gafst og frid. Hugkjæti helgri med, þér bljúgir þackir ydjum, þig, Drottinn! eñ tilbidjum, þitt prísum gædsku géd.

4. Gjør nú, ó Gud! þad bidjum, géf oss blessun í ár, med oss i øllum ydjum, æ sé þín gædska klár, hvern blessa, hvers eins stand! lát vísdóm vaxa' og dygdir, velliðan késjt hrigdir, blessa Kóng, lýd og land!

No. 253.

Med sínu lagi.

Ris upp, mín sál! ad nýu nú, nýa lofgjørd uppbyrja þú, því nú er nýtt ár komid, nýr skeinkur þér, nýgéfinn er, nýrunnid himna blómid.

2. Lof sé þér, Gud! fyrid lidid ár, lífs heillin mín øll í þér stár, ó þú, minn andar kraptur, sem vægdir mér, svo enn eg er, á nýtt ár kominn aptur.

3. Þú hefir verndad vedhlaup mitt, vel, svo eg gjæti hnossid hitt, á nú umlidnu ári, líkham og ønd, þín líknar hønd, leiddi úr hættu og fári.

4. Einn varstú traust og unun mín, ein mig verndadi gædskan þín, eg geck í geymslu þinni, hagsæld og ró, þín hönd mér bjó, og huggun sálu minni.

5. O! mín sálar heill hjartanlig, haldtú því sama fram vid mig, á ári inngángandi, handleidslan þín, sé hlífdin mín, vid háska' og öllu grandi.

6. Ný miskun ári nýu á, nýa mér qveiki laungun hjá, þér einum þjóna, hlýda; mitt kall og stétt, trúr rækja rétt, rór þyggja', ef vilt, hid strída.

7. Þá æfi árum hallar hér, hjástod best Fadir! vertú mér, géf endíng glada nauda; athvarfid mitt, skal ordid þitt, eins í lífi sem dauda.

8. Allt þad gott, sem mér unntir þú, almáttug hönd þín geymi nú, og blessi mig og mína, þitt andlit blídt, um árid nýtt, yfir mér láttú skína.

## No. 254.

Lagid: O Drottinn allsvaldandi!

Hóckum vér Gudi gladir, af gódu hjarta, hug'og trú, allir sem túsafnadir, erum í Drottins húsi nú; hañ oss gaf, líf, og lénti, líknsemd af, hvad sem þénti, ei hann svaf, allt sá best er henti.

2. Vor Gud! þér vegsemd tjáum, vardveitslu þína fyrir og nád, framar eñ skynjad fáum, forsjón þín hefir ad oss gád; fyri hlíf, heilsu, gródur, hjálp vid kif, næring, fódur, þér eilíf, þock sé, Fadir gódur!

3. Æ! fremur eñ þig bidjum, oss réttú þína Fodur hønd, ad allt til lofs þér ydjum, andi þiñ styrki vora ønd; auk oss dád, audgast dygdum, um vort lád, varna stygdum, í sorg oss nád, send frá efri bygdum.

4. Lát hvern árs-dagiñ eina, æ kénna jafnan sért oss med, og menn í øllu reyna, ad stjórn þín mild þá fær ásjed. Fadir! vér, forsjá þinni, felum hér, líf, heimkyñi, allt hjá þér, adstod, blessun finni.

## 2. Missiraskipti.

### a.) Vor-Sálmar.

No. 255.

Lagid: Gædskurikasti grædari minn.

O Herra Gud! eg þacka þér, þú hefir hlíft og stjórnad mér, á nú umlidnum vetri, háska og slísum, varnad vid, reitt

blessun, næga hlífd og lid, mér og minu adsetri. Drottinn! Drottinn! eg kann eigi, út ad segja, ástar anda, miskunar þinnar mér til handa.

2. Samt hefi' eg syndgad mikid og mjeg, móti þér hátign guddómlig! miñ Gud! minnstú þess eigi, lát yfirgnæfa gædsku þín, gjordu eñ framar vel til mín, hvad eg efa aldregi. Drottiñ! Drottiñ! mín hefir gjætt og meinin bætt þín miskun ríka, unn mér hún fylgi' á eptir líka.

3. Missirid er nú umlidid, en bid nálæga tekur vid, því bid eg, Herra hýri! ad mig leidi þín hjálpar hond, hættulaust yfir mein og grønd, og athofn allri stýri; Drottinn! Drottinn! ad øndu minni máttur þinn og mildi gjæti, líkhaminn sømu lidsemd mæti.

4. Inngáng bædi og útgáng minn, áform og hegdun sérhvert sinn, farsæl þú Gud miñ gódi! mér og miñi svo stjórna stétt, ad stundi' eg hana vel og rétt, í þiñar forsjár flódi. Drottinn! Drottinn! leid þú mig um luckustig frá lasta voda, vyrdstú mig ætíd í øllu stoda.

5. Allt hvad eg gjøri og gjøra læt, Gud minn blessadur! ad því gæt, svo farnist farsællega; reisur mínar og ráda-

hag, rædu og ástand nótt og dag, aũastú alla vega. Drottinn! Drottinn! leyf þú ei eg lífs á vegi løstum sinni, mig fel eg þér og mitt heimskynni.

6. Leid þú mig, Gud þann víssa veg, sem vísa ord þín guddómlig, um alla æsi mína, geym mín í sannri andrækne, géf þú ad eg ũnlæstur sé, í vernd og voktun þína. Drottinn! Drottinn! leyfdú mér, ad lifa hjá þér og lausnar degi, fagna, nád þína svo mikla megi.

## No. 256.

Lagid: Gudi lof skal ønd mín inna.

Vetur er enn á enda, eilift lof sé þér, Fadir kjær! þú létst oss lucku henda, og lagdir þad til, sem þurftum vær; þú hefir øll vor efni, aũast vid fári' og naud, verndad í voku' og svefni, og veitt oss daglegt braud; varnad voda og føllum, vedra og húngurs pín, afstýrt stor-slísum øllum, og stodad vel børnin þín.

2. Enginn kann yfirvega, alla blessun sem veittir þú, andlega og stundlega, á þessum lidna vetri nú, heilsu, lán, heill, bjargrædi, høfum enn þegid vér, margsháttar gagn og gædi, gafst þú oss, Drott-

iñ! hér, þú hlífdir háska' og grandi, héldst bygd og sképnum vid; þú veittir voru landi, verndun á alla hlid.

3. Þacklætis offrid þýda, þygdú nú af oss aptur á mót, fyrir ást og ásjá blída, oll velferli og nádar bót; svo fyrir Son þinn mæta, sendañ til Lausnar oss, þú létst hann borga'og bæta, brotin vor oll á kross; í honum allt hid góda, oss veittir, Drottinn! þú, þér gjorum þackir bjóda, þad er vort offur nú.

4. Hverr kañ ad tjá og tína, trúfesti þiñar sérhvern vott? eda med ordum sýna, allt, sem landsbúum veittir gott? auga þitt ad oss gádi, eyra þitt heyrdi' oss vel, hondin þín hjálpa nádi, hýrt var þitt ástar þel. O þú, Drottinn alvaldi! allt gott er létst í tje, hér og um allar aldir, æfinlegt lof þér sé!

## No. 257.

### (Eptir gódann Vetur.)

Lagid: Kjær Jesú Kristi!

Guds gædsku prísa, geymar, hof og stord, lof hans auglýsa, lifandi mañа ord; himnanna hersveitir, Herrans votta

dád, allt gott eñ oss veitir, ástin hans og náð; merkin tída hentug hann, högum lýda setja vañ, vorum hlýda kjörum kañ, kæla' og sólar bráð.

2. Oss enn framleiddi, eitt um vetrar skeið, Gud og lífs greiddi, gánguñ heim í leið; vodanum afvendi, vedrin gjördi hæg; leika lét í hendi, lífsins medöl þæg; gaf fáráðum huggun hañ, hressíng þjáður jafnan kañ, oss í náðum veitast vañ, vegnan gégn og næg.

3. Med hverju má eg, miñ Gud! heidra þig? ekkert til á eg, áttú sjálfur mig; þitt eg þér skal bjóða, það er mín önd og líf, prís þinn lystugt ljóða, lán hvert reyni' eda kíf. Offur greidi' eg þackar þér, þig tilbeidi: vertú mér, lífs um skeid, sem eptir er, unan, von og hlíf!

4. Nýnádar gædi, nýu sumri á, líf, föt og fædi, Fadir! virdstú ljá; gagn, sem gengid sýdur, géf' oss himniñ, framí, heilsa, fridur, fylgi' oss út og iñ. Fénadar hjörd ei finni naud, færi jördin öllu braud, lands umgjördin láti aud, ladast að oss sinn.

5. O Jesú! á þér, öll mín grundast von, haf bústad hjá mér, heilagi Guds

Son! 'einkum lífs vid lokin, láttú anda þinn, þegar eg máttar þrotinn, þenki' á danda minn, huggun sedja hjartans þel, hugañ gledja deyds vid el, heim þá qvedja kann eg vel, og koma í himininn.

6. Þar sífeld sæla, sem ei bregdast kañ, og líf iñdæla, æ vid leikur mañ; alla' án enda gledur, ástin Drottins heit, unun ædstri medur, í þeim dýrdar reit, eymda róli frelsud frá, fyrir stóli lambsins þá, höfud bóli himins á, heilög dvelur sveit.

## No. 258.

Lagid: Gudi lof skal önd mín inna.

Lof sýngid, göfgid gladir, Gud vorn Skapara prísa ber, sem med oss fer, sem Fadir, framleiddi jörd og himna her, göfgid þann Gud, hvers haldist, grunnlausa hefir nád, frá eilífd og um aldir, allir hans miklum rád, vor-fögnud blídt útbreidir, bod þitt, ó Gud, vor Gud! þér lofgjörd, þöck og heidur, því sýngur önd vor glöd.

2. Voldugur, vís og gódur, veturiñ, Fadir! létst frammgá, her náttúrunnar hljódur, hvíld tók og sem í dvala lá, med vor-blóma blídum vakti, bendíng þín

hann til lífs, hýrt brosti og burthrakti, blíd sól þraut vetrar kífs, il-gjøfum enn útfleytir, øllum þvi gledi ljær, fjør hressíng, frjófsemd veitir, farsæld um bygdir grær.

3. Gud, allrar gædsku lindin, gledst enn náttúran oll vid þad, í daggar-dropum sendir, dýra frjófsemd hér ofan ad; strax blómi skógur skrýdist, skaut jardar nýskéd læst, iñdælum urtum prýdist, engid er blómstrum glæst, lopt hlýtt, ylmur ágætur, øll lada til vor hnoss, vor-gjæda' er, Gud! þín lætur, gjædska útbýtast oss.

4. Um vøllu' og grænar grundir, gædsku þinnar bergmála róm, otal þúsund þúsundir med þrá-samstilltum gledi-hljóm; lof þitt um loptid dunar, lofa þig blómstur stráð, fjall, laut og lækja buna, lof róma þinni náð, hvert hljód føgnudi fyllt er, fagrann æ sýngur prís, oss þvi ad þacka skyldt er, þína trygd, Gud alvís!

5. Ei skal þó túngan eina, algódi Fadir! prísa þig; hjartad í ástum hreina, hefji med gladværd til þín sig! sífeldt skal vor ósk vera, med verkandi' ást og dygd, þér vora þøck ad færa, þjóna gladir med trygd, vér lífs tóm vort þér helgum, vor skal á-

stundan sú, ad lærum, fúsir fylgjum, Fadir! því skipar þú.

## No. 259.

Lagid: I Jesú nafni uppstá.

Nú upprann þín sumar-sól, vottur til um eilífd eigi, ad í minni grof eg þreyi, vor Gud, athvarf vort og skjól! úr ham vetrar følum færir, fold þín alvold máttar-hond, uppýngd sképnan hýr sig hrærir, um hafid, lopt og ilmd lond.

2. Gud! þín lindin gædskn ný, med ár-døgg foldu fredna kjætir, frjófum med qvold-skúrum vætir, sólar vermda bollum blý; tímar árs í ordu' er settir, enn nú skiptast, lof sé þér! þraut skammdægra ljós þitt léttir, líka af nordurs búum hér.

3. Þú upplýkur þinni hond, gledur, blessar, gnægtum fyllir, gjæda þinna', en harma stillir, þeirra sképna', er þágu ond, þín af feiti' og frjófsemd drjúpa, fótspor þá í skýum gár, ástar undra afgrunn djúpa, opid hverri sképnu stár.

4. Lautin, breckan brosir hver, sád-grøs, ótal urtir gróa, oss ad sedja'og gledja þróast, skogur bjørg og skjólid lér; í ótal lækjum ad oss streymir, unadsemdum

náttúran, af þér fyllt, þá gledi geymir, gnótt, er tæmast aldrei kann.

5. Hverr síðst gódur, Gud! sem þú? trúfast, orlátt hvar er hjarta, á hverju Fodur-nafn eins skartar? vér undrumst þína ást og trú; án þín, Gud! vér glatast hljótum, glæpugt líf vort til þess vañ, vér þó lífs og nádar njótum, nægta, er mildi þín oss ann.

6. Ollum lýsir ljósid þitt; engañ vantar ástar gjædi, ó! þín nád er vort lofqvædi, og þín vægd, sem oss lét fridt! Gud tilbidjid, gofgid, qvedid, Guds nád prísid, virdid, menn! hvad margt gott vor Gud oss tédi, gott hvad margt vill tjá oss enn.

## No. 260.

Lagid: Gudi lof skal ønd mín inna.

Nú skal enn í Guds trausti, uppbyrja nýjann missira hring, lífsins hertogiñ hrausti, hafdu gát á oss allt um kríng. Nýa blessun, nýtt sumar, nú lát oss færa hér, hvad um lopt, haf, jord sveimar, hlýda má, Drottinn! þér; lát nýa nádarstrauma, nýkomna frjófga tíd; virdstú vernda og geyma, velk-staddann Íslands lýd.

2. Gef þú oss farsæld góða, gefðu oss enn í landi hér, af jörðu gras og gróða, gagn sjáfarins og heilsu kjør, blessun um bygðir allar, bjóð andar, líkhamans, enn heillum oss tilfalla, ábúum þessa lands; svo glaðir náum njóta, næríngar lífs og auðs, þá skal ei þockin þrjóta, þögu vors dagleg brauðs.

3. Kóngsins tign støðug standi, styð þú, Drottinn! hans Ríkis-ráð, friðurinn forði grandi, forsjón þín blessi Ísa-láð, vold, kirkju, kristinndóminn, kénníng, trú, líf vort hér, eilífi lífsins ljóminn! leið allt til dýrðar þér; vorn inn- og útgáng bæði, øll verk og ferðalag, bygðir og øll bjargræði, blessa þú nótt og dag.

4. Alla lands Yfir-herra, í þína felum verndar-hønd, eign og embætti þeirra, og alla menn um þessi lønd. Íslands vorn enn veri, þín voldug hjálpin sterk, oss svo hér enginn geri, áhlaup né skémdar-verk; þig ef men vita vera, vorn skjøld á alla hlið, þá mun alls enginn þora, oss spretta fíngri við.

4. Í stjórn og umsjá vorri, ytri og innri friður sé, ytri í høndlun hverri, hinn góð samvitska látt'itje; en sá eilífi friður, oss géfist himnum á; þín hjørð, ó Herra!

bidur, hana í náð lít á; vor heill, athvarf og verja, vertú í landi hér; svo skal Sumarid byrja, med sonnu traust' á þér.

---

## b) Haust-Sálmar.

### No. 261.

Lagid: Gædskurikasti grædari minn.

O Gud heilagur, heilagur, heilagur Gud og Drottiñ vor, blessadur um aldir alda! þér offra eg þacklæti nú, þig ákalla med bæn og trú, þér vil eg gott lof gjalda, Gud minn! Gud minn! skyldt er mér ad þacka þér og þig ad prísa; upp, upp minn saungur, Guds ást ad lýsa.

2. Lof sé þér heill og hjástod mín, himneski Gud! fyrir miskun þín, og veitta velgjord alla; sem nú umlidna sumar tíd, sýnt hefir mér þín gædskan blíd, og lét mér allt vel falla. Gud miñ! Gud miñ! mig hefir leidt, og meinum eydt þín mildin ríka, bygd mína vardveitt og blessad líka.

3. Upplokiñ fañ þiñ ástar bruñ, eg og þitt nádar djúpt afgruñ, miñ Drottinn! mér til handa, þadan kom mér oll þorfin mín, því prísa eg nú gædsku þín, og vil þér vegsemd vanda. Gud miñ! Gud miñ!

allt hvad er, í aunmum mér, þér einum unni; lof þitt sé jafnan í mínum munni.

4. Allañ mig, Drottiñ! offra'eg þér, á nú komanda vetri hér, og alla æfi mína, lát mig umflýa lasta verk, leidi mig jafnan hönd þín sterk, geym mín fyrir gjædsku þína. Gud minn! Gud minn! hvar eg er, og hvert eg fer, og hvad eg gjöri, skil aldrei vid mig, hirdir hýri!

5. Allt þad, sem ecki þóknast þér, þad virdstú taka burt frá mér, vel svo þínum vilja hlýdi; en þad, sem þér er þægilegt, og þénar til þiñar dýrdar frekt, géf mér þad, Gud miñ blídi! Gud minn! Gud miñ! verk mín öll, og vegnan höll, sem mál og minni, farsælist af þér úti' og inni.

6. O Herra! tak þad allt frá mér, er mér kañ snúa burt frá þér, svo ockur enginn skilji, ó Drottiñ! géf mér aptur þad, er mér kañ þér ad snúa ad, er þad mín ósk og vilji. Gud miñ! Gud miñ! virdst æ hér, ad vera med mér, miñ Herra hýri! eilíft lof sé þér, Drottiñ dýri!

## No. 262.

Lagid: Gudi lof skal önd mín inna.

Lof sé þér, Drottiñ dýri! dögum og öldum stjórnar þú; há-sumar tímiñ hýri,

hann er kljádur á enda nú; ó hvad ótal morg gjædi, oss gaf þín nádin blíd, líf, heilsu, fot og fædi, farlæla sumar tíd, trú klára' í kyrrd og fridi, kristiñdóms medol oll, þín hjálp vard hverjum ad lidi, svo hrepptum ei slísa foll.

2. Med mjog margfoldum gædum, miskun þín krýndi sumars tíd, frjóssemd af himna hædum, hefir á jordu audnast lýd, land og sjór gagn og gróda, gékk hefir oss nú, áhlaupi íllra þjoda, oss hefir fordad þú, yfir- og undir-stéttir, ásá þín milda hond, í þína umsjón settir, almennilegt tilstand.

3. Þér gjorum þackir færa, þýdi Fadir! af hug' og trú, lof þitt eblist og æra, vid allt þad, sem oss veittir þú; en hvad á hverjum degi, hofum styggt veldi þitt, miñ Gud! miñstú þess eigi, misverkin oll géf qvitt, lát oss ei glæpa gjalda, géf heilog þeckjumst rád, Fadir! vid oss framhalda, fulltingi virdst' og nád.

4. Herra! lof þér sé þýdi! þinn fyrir Son, er dó á kross; þú blessar lond og lýdi, læsing atviñu upplaukst oss; fyrir líf og lucku alla, lid, heilsu, vernd og fé, er þú létst oss tilfalla, æfinleg dýrd þér sé! svo skal sumarid enda, sýn oss, þig nádugann,

og virdst oss veturiñ senda, vægañ og farsælann.

## No. 263.

Lagid: Rís upp, min sál! ad nýu nú.

Sjá! blómiun sumars á burt er, íklædast vetrar búníng' fer, náttúran, dymma dægra, og hretin hørd, lífs lada hjørd, leita ad skjóli þægra.

2. Sjá! vér medtókum sumri á, svo margfold gjædi'af landi' og sjá, bjuggumst vid lopts óblídu, bjuggumst vid þorf, vor bæa størf, budu ad verjast strídu.

3. Sjá! ad lifum og sérhvad gott, sem þegid høfum, gædsku vott, þeckjum Drottins dásamann. Oss hættum af, hreif, blessun gaf, hann leiddi' oss alla saman.

4. O Gud! þig prísar sinni' og sál, sérhvad, sem bærir raust' og mál, og sképnu skarar snjollu; þér þackar allt, lán þúsundfaldt, þú sem vidheldur ollu.

5. Vertú vor hlíf, heill, unan øll, allt hvad lifir um dali' og fjøll, til þiñar mildi mænir; géf blessun, brand, burtvísa nand, og boli, sem ró oss rænir.

6. Æ lifa svo ad liki þér, léna oss styrk, svo fáum vér, følnadri foldu medur, ad hvílast vært, uns hróp þitt skjært, heimiun til lífs uppqvedur.

## No. 264.

Lagid: Syrgjum vér ei sáluga brædur.

Oll náttúran enn fer ad deya, ilur horfinn, saungfuglar þegja, kulid skékur qvistu ber-snauda, qveina stráin følnud mót dauda.

2. Híngad sól dopru hornauga vendir, hvert geislana blíd fyrri sendi, foldin styrdnar, fyrr sem réd gróa, felur skugg-inn ljós, jørdu snjóar.

3. Enn lifir þó aldanna Fadir, óum-breyttur, forsjá hans gladir, selum vér oss, fulltraust þad gétur, fridad enn og geymt hér í vetur.

4. Nockrum yndis nægtum þó svipti, náttúrunnar dauf hátta-skipti, alvøld speki' og elska nærgætin, áqvardadi hvad sem oss mætir.

5. Veturinn er velgjørd frá Drottni, vakir hans forsjá, aldrei svo þrotni, þad hverri til gagns er og góda, hans gædska mun sképnunni bjóda.

6. Hañ band vetrar-húmid oss færi, þær heillir, sem gledji og næri; Herr-ans nægtir hollar oss fæda, hann réd oss mót vetrinum klæda.

7. Foldar í skauti fredun hann lætur, felast qvikar urtanna rætur, uppþyngdar

þá út vetri hallar, í æsku-blóm nýtt lífsins hann kallar.

8. Þínum enginn þeckir af gjørdum. Þúsundasta partinn á jordu, en af því stóra, sem vér þó sjáum, sanna hjartans ánægju fáum.

9. Fagnid! ord Guds fúsir ad geyma, Fadir ormanna kann oss ei gleyma, stig hans boda gángid hug-gladir! Gud er sumar og vetur vor Fadir.

## No. 265.

Lagid: Gudi lof skal ønd mín inna.

Kominn er kaldur vetur, kom þú til med oss, Drottinn minn! líf vort, eign og adsetur, anníst miskun og kraptur þinn. Oførum, íllum dauda, andstreymi, sorg og þrá, styrjaldar stórum voda, sturlun samvitsku frá, húngri, drepsótt, hallæri, hardindum, dýrri tíd, forda oss, Fadir kjæri! fylgi oss nád þín blíd.

2. Géfdú oss gódann vetur, géfdú oss hagstæd vedra-føll, géf þú oss gott adsetur, géfdu oss þarfa medøl øll; annastú eckjur allar, og fødurlausann hvern, annast þá á þig kalla, aumstaddra sértú vørn, unnu oss þitt ord ad læra, og synda fordast

vél, oss hjá þér unn ad vera, unn oss ad deya vel.

3. Blessa þú bygdir mañá, blessud velferli lát oss fá, blessudu braudi saña, blessun Guds orda uñ oss ná; blessa vor brjóst og siñi, blessa vor verk og mál, blessa vor bæa kynni, blessa þú líf og sál, blessa þiñ barna skara, blessa þú hús og meñ, blessa oss, vondu vara, veturinn blessadu' enn.

4. Frá ædstum tignar tróni, þín trúfest nád enn gæti vor; þér hverr eiñ hlýdiñ þjóni, hönd þín oss leidi sérhvert spor; iñri og ytri fridur, eining í hverri stétt, haldist oss einninn vidur, og allskonar höndlan rétt; geym oss vid glæpaföllum, grandi, fári og neyd, sídan úr eymdum öllum, í eilífa dýrd innleid.

---

## c) Eptir gott og ardsamt Sumar.

### No. 266.

Lagid: Lofid Gud, lofid hann hverr, sem kann.

Ó vor Gud! er nú jardyrkjan hér, útendud, allir því færum vér, þér vor Fadir! þökk og prís, þú oss blessadir, stjórnin þín er væg og' vís, vér syngjum gladir! frjófgun lands, forsjón þín greiddi,

gagnsemd mañs, góda tilreiddi, sképnuum hans, skadsemd fráleiddi, lífs bjorg føfnud saman er. :,: Allt hvad hefir andardrátt, einn Gud vegsami.:,:

2. Sól þín skein, sannhlý um hvolfid blátt, kulda mein, kroptug, í hverri átt, burttók hún, en himininn, hlýtt regn oss færdi, breiddi jord út barmiñ siñ, blómleg gros nærdi; yrktum vér, ardsama reita, vonin hér, vorn gladdi sveita, Gudi ber, greida þock veita, starfid borgad vort er vel. :,: allt hvad hefir andardrátt, einn Gud vegsami.:,:

3. Lof sé þér, launadir, Drottiñ! þú, allt vort hér, erfidi og mædu nú, ydni hjá þér ávallt fañ, ást og nád kjæra, heill létst þú í hvern einn rañ, himiniñ færa, víst ert sá, verndariñ þjóda, sem vilt oss ljá, vætu, þurk, gróda, er þér hjá, upphaf alls góda; þér ber æra, þock og prís. :,: Allt hvad hefir andardrátt, einn þig vegsami.:,:

## No. 267.

Lagid: J dag þá hátíd høldum vér.

Lof sé þér, hjartans hróp vort þvi, heyrdir þú, Fadir þjóda! starf vort borgar nú blíd á ný, blessan af jardar gróda, hvert

stráid, lauf og blómstur ber, berlega vitni' ad mikil er, Drottiñ þín gædskan góda. Vér þöckum þér, þig lofum vér!

3. Heyskap vorn blessad hefir vel, hønd þín ad þessu sinni, því sýngjum lof med þacklátt þel, þad medtak af náð þinni; géf oss forsjálni'ad gjarnan hvørr, gáfur sem veitti náð þín or, á bestann hátt brúka kynni, og þacka þér, þig prísa hér.

3. Lát vorar hendur bjóda braud, bjargþrota þurfa-mønnum, svo léttum undir añara naud, med ást og kjærleik søñ-um; þegar vér afgángs høfum hér, hugsa lát oss ad skyldugt er, bágstøddum bjarga grønnum; svo þøckum þér, þig prísum hér.

4. Líf medan varir lát oss þér, líkjast í kjærleik hreinum, í føgnud himna framar vér, fullkomnun hans þá reynum, þó kunnum nú þinn kjærleik sjá, klárlegar skín hann himnum á; þér sé, Gud! æra einum; vér þøckum þér, þig lofum vér!

## No. 268.

Lagid: Gædsku Guds vér prísum.

Vér þøckum þér, hinn gódi! þig prísum vér, ó Gud! ad þú af þínum sjódi, þarflegt oss veitir braud, oss geymir æ og

nú; allt það, sem fram þú færdir, forsjón þín ávallt nærdi; gódur, vor Gud! ertú.

2. Land vort blessa, lífs Herra! legg fædu'á sérhvert bord! lát blessun þeim ei þverra, sem þitt vardveita ord! ørbirgum adstod tjá; géf audgum gjafmildt sinni; géf eining, svo menn kynni, síns njóta'í fridi fá!

---

## d) Eptir bágt Sumar og í hardæri.

### No. 269.

Lagid: Jesús Kristur er vor Frelsari.

O Gud! sem rædur øllum gjædum, af jordu, vøtnum, sjó og hædum, þín hønd útbýtir, Herra kjær! hverskyns gáfum, sem þyggjum vær.

2. Allt vald þú, Drottinn! ætíd hefir, øllu, sem lifir, næring, géfur, þegar upplýkur þinni hønd, þá mettast allt hvad dregur ønd.

3. Þegar útsendir þú þinn anda, þá nýast ásýnd jardar landa; en ef krapt dregur undan þinn, oss sparar jørdin gróda sinn.

4. Í sumar margur sá og reyndi, sínu orlæti nú ad leyndi, náttúran añars nógu rík, neyd er verdskuldud af oss slík.

5. Vér kjósum gæda kjør, en synum, kaldsinni mikid gáfum þínum, ó Gud! refsa því ei, sem ber, enginn fyrir þér saklaus er.

6. Géf oss ánægdu enn med sinni, úthlutun móti taka þinni, og óski svo vort andvarp stilt: æ verdi Drottinn! hvad þú vilt!

7. Í hug til þinnar hjálpar stefnum, hagtær þú vorum litlu efnum; bjørg lífsins drýgi blessan þín, bjód frá oss viki húngurs pín.

8. Blessa vort land og bæg frá mædum, bjód þú eiñinn ad rík af gædum, opni náttúran oss sitt skaut, og vid hallæris fordi þraut.

9. Til þiñar, Drottiñ! mildi mænum, miskun þín hyggi' ad vorum bænum, veit þú oss hjálp mót voda'og neyd, vertú vor Gud í lífi' og deyd.

## No. 270.

Lagid: Kom hér, mín sál! og kynntú þér.

Drottinn kjær! hvad veitstú vel, vanqvædi gjørvøll mín! mér hjálpar æ

hvar helzt eg dvel, hjástod og gædskan þín, haldt mér stödugum vid þinn veg, víst þín af hjarta'ef leita eg, ró géfst, en raunin dvín.

2. Mig þó heimsæki margfold naud, mædan ef ángra fer, þó daglegt hljóti'ad bresta braud, svo banníst naudþurft mér, raskast þó ei mín hugar hægd, hef eg allskonar gæda nægd, því Drottinn líkn mér lér.

3. Haf því skorti gladvært géd, grátin og hugsjúk önd! finm þúsund litlum mat því med, mettadi Jesú hönd; Herrañ skérf þínum hefir ei gleymt, heldur þér nóg til vista geymt, þó úrrædi virdistvönd.

4. Hvad hañ þér gagna sjálfur sjer, sannlega muntú fá, heims nægta þó ei heppníst þér, herra bord vid ad stá, lát þér nægjast i lægra sess, lífs uppheldis ad neyta þess, sem skamtar hönd hans há.

## No. 271.

Lagid: Gædskurikasti grædari minn!

Þad er svo margt og mikils verdt, miñ Drottinn! sem þú hefir gjort, mig vid um mína daga; allt var þad gott, eg þacka þér, þín forsjón mild útbýtti mér,

þvi, sem best hér nam haga; Fadir! Fadir! veiti' lid mér, þad eptir er, og øllum líka, guddómur þinn og gædskan ríka.

e) Eptir allgódar og ardsamar Vertídir.

No. 272.

Lagid: Gudi lof skal ønd mín inna.

Frá þér, ljósanna Fadir! flýtur øll gjøf, sem nefnist gód, vér sjáum vonar-gladir, þú veittir allt, sem hentar þjód, á þitt ørlæti mænir, allt hvad lifs hræring ber, hæd, vøtn, laut, hálsar grænir, herma oss stórt þad er, hafid baud heika skyldi, hirdsla audæfa þín, þadan þín midlar mildi, morg gædi sképnum sín.

2. Þínu lífs eptir ordi, ad þeirri hirdslu sofnumst vér, sem børn ad fødur bordi, blessunar þinnar leitum hér; eñ gaf þín ørlát mildi, oss þadan gódann plóg; hverr er, sem ecki skyldi, upphrópa: þú gafst nóg? dýrd sé þér, Gud! sem géfur, gott allt til sjós og lands; allt hvad andar-drátt hefur, ebli prís Skaparans.

3. Hverr kann þér, Herra! nægja, herma vegsemd og þackargjørd? þín safn-

ar forsjón fræga, fiskum hafs, sem menn sauda-hjord, midt í sjós ólgu öldum, opnar sig hend þín góð, med gædum svo margföldum, mettir þú landsins þjód; því hættulegri heita, hér vor erfidis kjör, þess betur brátt vorn sveita, þín borgar mildin ör.

4. Lof þér, Gud! allir inni, allt má nefna þíns kjærleiks vott; lát oss nú líkjast þinni, líknsemd í því ad gjöra gott; géf oss med gáfum þínum, góda ánægd og frid, hallæri, háska, pínum, Herra! oss forda vid, géf ad vér lifum gladir, greid þú oss allt í hag, vér þinni forsjón, Fadir! felum oss nótt og dag.

## No. 273.

Lagid: Jesú Kristi! vér þökkum þér.

Príst Drottinn allt hvad er, öllu sem næríng géfur; af brunni hafsins björg oss ljer, blessad enn land vort hefir! o Gud! hvad værum vér án þín? virdst oss framvegis gledja, med þinni líkn; uns líf vort dvín, lands-heillum gódum sedja. Lát oss annt ad gjöra gott, gjöf þína svo rétt brúkum; þakklætis sýnum þar med vott, ad þurfamanns tár afstrjúk-

um. Drottinn! þér einum dýrdin ber, vér þockum þér, þig lofum vér!

---

## f) Eptir bágar Vertídir og í Fiskileysi.

### No. 274.

Lagid: Hverr, sem ad reisir hæga bygd.

Gud! þinni stjórnun hæfir hrós, í hrigdum, skorti, mædum, þín hefir hondin líknar ljós, lykil ad øllum gædum; nær þeim upplýkur lætur lýd, luckusæld hreppa' á hverri tíd, af hafi, jørd og hædum.

2. En ef þú lykur aptur þá, orbirgdin víss er líka, lífs næríng hverfur landi frá, læsist hafs skautid ríka; nálgast þá húngurs neydin sár, nú hefir margur þetta ár, mátt reyna mædu slíka.

3. Féssjód sinn hafid furdu tregt, féck oss, vér megum klaga: líkhams ad lúd er fjørid frekt, forgéfins marga daga; en verdi Drottinn! vilji þinn, veitstú hvad þínum hvert eitt sinn, børnunum helzt kann haga.

4. Vér møglum ecki móti þér, miklu heldur oss fleygjum, í þinn forsjónar fadminn hér, felum oss þér og segjum: æ Fad-

ir! mikla mildin þín, miskuni oss og fordi þín, vongódir vér svo þreyum.

5. Það oss ei lídi þánka úr, ef þykir atvinnu bresta, ad skinid fylgir eptir skúr, og skort opt nægtin mesta; þú hefir allt í þinni hønd, þér felum bædi líf og ønd, neyd bæti náð þín besta!

## 3. Morgun-Sálmar.

### No. 275.

Lagid: Þér þackir gjørum.

Ljómar ljós dagur, lífs kjætist hagur; sjá! ljós sveit vekur, sól nótt burthrekur; enn Fødur alda, eilífum gjalda, þøck skal þrefalda.

2. Lof hátt skal hljóma, hjálp og náð róma, Guds geymslu bestu, gædsku nægd mestu; þolgódir þreyum, þar til burtdeyum, synd hatur segjum.

3. Vort kall vel rækjum, vort gagn rétt sækjum, óttumst Gud eina, elskum dygd hreina, sátt og samlyndi, sem er lífs yndi, bæn og blídlyndi.

4. Verum vongodir, vel þolinmódir, þrautir afþreyum, þó hér stríd hejum,

síst Drottinn sefur, sinni nád hefir, heil- id, hjálp géfur.

5. Mitt líf, minn andi, mín raust syngjandi, ó Gud upphæda! um þinn prís ræda, vel sé vid tamin; vegsemd skal samin, þér og þock, Amen!

## No. 276.

Lagid: Gædskuríkasti grædari minn!

Med fridi nóttin fráleid svort, fyri mér aptur sólin bjort, lýsir og gladt mig gétur; í mætti' og gædsku mikill þú, med krapti þínum, Gud! eñ nú, oss tíd og tak- mork setur; dýrd ber, því þér, vernd og nád og vitsku dád, mér virdstu senda, hvern dag í blessun hér byrja' og enda.

2. I svefni Gud mín vornin var, eg vissi' ei af mér sjálfum par, og háskañ ei adgætti; en móti hverskyns hættu' og pín, Herrann var sjálfur verndin mín, hans forsjón fár upprætti, krapt med, gladt géd, nýjann géfid hañ nú hefir heilsu miñi; o Gud! eg treysti umsjón þinni.

3. I nafni Jesú ángurs frí, eg birja þenna dagiñ því, hann verdur mér hag- stædur; Guds vilja ef ad eins eg añ, allt mér til góda leidir hann, lífi og lucku ræd-

sér, dapurt í burt úr hendi, vér skulum út, en grøfin er gjør, þar géfst ei annar endi.

2. Gud géfi þad svo þjónum vér, í þessari verøld inni, ad Guds Son med trúnni taki hverr, svo traustlega miskun finni; þá heimurinn frá oss hallar sér, hjálp Guds aldrei linni.

3. Nær førum vér í vort Føđurland, og úr fárinu skulum venda, géf eg mína sálu Gudi'í hand, í gledi himnaríkis senda. Gud Fadir, Guds Son, Guds heilagur Andi, géfi oss gódann lífs enda!

Lofsé Gudi! vor lausn er gjørd etc. (sjá No. 92, 2ad, 4da og 5ta vers).

## No. 330.

Lagid: Fadir vor, sem á himnum ert.

Andlegann styrk mér auktú þá, o Gud! nær verøld skilst eg frá, svo géd-rór mína géfi' eg ønd, gódi Fadir! í þína hønd; hørmum mínum í huggun snú, og himninum fyrir mér uppljúk þú!



# Viðbætir.

## I. Lofgjørdar- og Þacklætis-Sálmar.

### No. 331. (1.)

Lagid: Rís, upp, min sál! ad nýu nú.

Eilífi Gud! þín gædsku gnótt, gjorvallra minna daga nótt, upplýsti nád einskjærri, svo leidin þraung, ei þótti laung, þjáníngum fetud nærri.

2. Fyrir þá elsku, Fadir vor! færum þér vid hvert æfi-spor, þackir í þessum heimi, en sídarmeir, þann aldrei deyr, eilífdin prís þér geymi.

3. Þér einum selum alla' oss! þinn einka Son, er leid á kross, vort dæmi, von, ágæti, se þar til vér, sonnum hjá þér, sorg ad breytist í kjæti.

### No. 332. (2.)

Lagid: Í Babylon vid vøtnin straung.

Þig lofi allur engla her, alheims verndarinn blídi! þig lofi jardar þjódin hver, þér allt hvad skaptir hlýdi! þig lofi allt hvad lofa má, er líf og tilveru' af

þér nam fá, um þitt alveldid vída! útbreidist lof þitt alla tíd, eilíf guddómsins hátign blíd, af túngum allra lýda!

## II. Endurlausn vegna Jesú.

### No. 333. (3.)

Lagid: Guds Son kallar: komid til mín.

Jesús Kristur vor vinur er, vinfengi hans fulltreystum vér, samvitsku' er ógnun eydir; flýum því gladir fund hans á, er frelsa nádi' oss qvølum frá, og til lífs eilífs leidir.

2. Af elsku til vor ofan frá, Guds einka Son steig jordu á, og madur verda vildi; o hann føgnud, sem fáum vér! Frelsari vor hann ordinn er; prísum hans miklu mildi.

3. Guds einka Son er vinur vor, vér ef hans fetum dygda-spor, í huggun hrigdin breytist; óttast ei þurfum deyd né dóm, Drottins ef þeckjumst nádarróm, oss þá hans vingast veitist.

4. Vinur trúfastur vor er hann, er vill oss hjálpa og líka kann, ef hørmúng á vill strída; synd-þjádir flýum fljótt til

hans fullkomna meina græðarans, sem andar svipti' oss qvíða.

5. Oss yfirgéfið aldrei fær, undir hans verud framgaungum vær, ef hrøsum, hann oss stydur; hverr honum treystir, sæll er sá, sífeldt hans gánga vegum á, um adstod bljúgur bidur.

6. Vor ástvin, Jesú! þackir þér, þínir frelsudu gjøldum vér, sem von oss veittir blída, þínum fagnadar fundi ná, fullsælum gledjast Drottni hjá, í flock útvaldra lýda.

## No. 334. (4.)

Lagid: Heidrum vér Gud af huga' og sál.

O hvílík heill! ad þeckjum þann, þjóda gjørvallra Frelsarann, Jesúm, sem lífid lét á kross, ljúfur til frelsis øllum oss. O! þá brennheitu elsku hans, ei vildi hann dauda syndarans, en til farsældar leiddi lands.

2. Sælar má kalla þjódir þær, þig sáu' og heyrdu, Jesú kjær! medan í heimi hafdir døl; hvers þó oss hér ei géfist vol, þig munum gladir sídar sjá, samarfar þínir verda þá, í helgra bústad himnum á.

3. Sanna huggun og sælu von, sjálfur hefir oss veitt, Guds Son! endurlífgadir ad hjá þér, eilífrar gledi njótum vér. Sú eptirbreyda sæla' og hnoss, sífeldt upplífgi hvern af oss, þegar adkémur þraut og kross.

2. Til himins fórst á undan oss, eptir útstadinn deyd á kross, eins munum eptir endíng kífs, endurvakna til betra lífs, í þínu ríki' odlast þá, æru og dýrd þér sjálfum hjá; hvad þá vidjafnast huggun má?

5. A þig trúum og vonum vær, oss veika styrk þú Jesú kjær, þér svo ad aldrei føllum frá, freistingar þó oss leiti á. Þú heyrir æ vort harma qvein, hjálpar og grædir andar mein; sú er vor líkn og sælan ein.

## III. Sannur Kristinndómur.

### No. 335. (5.)

Lagid: Sá frjáls vid løgmál fæddur er.

Allt gott kémur frá einum þér, ástríkur manna Fadir! af þér hins besta væntum vér, í von loks deyum gladir.

2. Helgist þér æ vort hjarta' og mál, svo hotum rædu ljóta, vísdómsfull ord þín vora sál', veki til ysirbóta.

3. Andar gagn vort og annara med, ordrædur vorar stodi; þolid og hógvært géf oss géd, glæpa svo firrist vodi.

4. Herra! þegar ad þúngann kross, þú vilt oss bera láta, víst hann ad gódu verdur oss, von sú oss gjøri káta.

5. Ef ad trúlyndir elskum þig, andar mein kunna' ei granda; vodi og neyd þó sýni sig, senda munt nád þíns anda.

6. Hvad sem oss mætir heims um bygd, hug-gladir vér því tøkum; mýk oss gjørvalla mædu' og hrigd, mæddir þá til þín qvøkum.

7. Verdi oss, Fadir! vild þín ó, vantrú og efa forda, óþolinmædi' oss flýi frá, fyrir krapt þinna orda.

8. Samvitsku ró og sálar frid, sælum géf oss ad halda; einnig medbrædur vora vid, varast tvídrægni kalda.

9. Svo sem ad fjøldann synda þrátt, sjálfur oss fyrigéfur, eins géf framvegis ydkum sátt, vid alla sem skyldan krefur.

10. Audlegd ef fellur oss í skaut, elskurikt veit oss sinni, ad aumra léttum undir þraut, eptir tilætlun þinni.

11. Ef fáum neyd og örbirgd reynt, eptir rádstöfun þinni, trú og þolgædi ljóst og leynt, lát oss votta hvert sinni.
12. Athafnir vorar allar hér, ætíd géf oss ad vanda; svo ydjum þad, sem þócknast þér, þiñ send oss styrk til handa.
13. Hóf og ydju, sem hentar best, hreinskilni' og dygdir allar, oss kristnum géf ad ydka mest, uns daudiñ hédan kallar.
14. Lát oss svo, Drottinn! lifad fá, lastvara medan þreyum, ad sæla vis þér sjálfum hjá, sé oss þá hédan deyum.

## No. 336. (6.)

Lagid: Kom, Skapari heilagi Andi.

Þú, sem hid góda elskar eitt, enn þótt ad veikum finnist hjá! án þín eg megna ecki neitt, allur minn kraptur þér er frá.

2. Breiskleik minn, Drottinn! þeckir þú, þín nád og styrkur ebli mig, á þínum kjærleik kroptug trú, kénna skal mér, ad elska þig.

3. Lát elsku þá minn hnegja hug, ad helga líf mitt einum þér; þín linkind æ mér léni dug, lastvorum hegda mér, sem ber.

4. Géf þú mér skyn, að dygð og dáð, dýrmætast huoss í verold er, að sá, sem vandar allt sitt ráð, oruggur sérhvern mótgáng ber.

5. Að fullgjörð dygð ei finnast kann, sostum grundvelli stofnuð á, nema skír trú á Skaparann, skíni guðrækni siñi hjá.

6. Þú, sem einn verkar veikum í, að vilja' og gjöra það, sem ber; styrk þú miñ veika þróttiñ, því, frá þér minn allur kraptur er.

## No. 337. (7.)

Lagið: Kristnir menn! umfram allar tíðir.

Eilífi Guð vor allra Faðir! einn ertú góður, mikill, vís, afundrum þinnar gæðsku glaðir, gjøldum vér þér af hjarta prís; þig að dýrka mjøg inndælt er, um gæðsku þína syngjum vér.

2. Hverr, sem ástgjafir þínar þeckir, og þær rétt virða skyn á ber, því skyldi hañ þig elska ecki, af elsku leiddur hlýðnast þér, á gæðsku þinni efalaust, æ grunda sína von og traust!

3. Að Jesúm Krist, þinn Son, oss sendir, sérlega krefur þøck af oss, hann þig, sem Føður, þeckja kénndi, þoldi vor

vegna deyð á kross, lærdómi bæði og lifnað' með, ljós og farsæld útbreiða réð.

4. Fyrst Guð oss þannig elskar alla, og eblir heillir sérhvers manns, látum oss, bræður! léttbært falla, að líkjast dæmi Skaparans, ástsemi, dug og elsku með, ástundum dygð og frómlyndt géð.

5. Kjærleiks Guð! oss sem kallað hefir, Krists ríkis til af þinni náð, og øllum jafnan gott allt géfur, æ! géf oss bæði vilja' og dáð, að lífs til enda þjónum þér, sem þínum bornum verðugt er.

## No. 338. (8.)

Lagið: Allt eins og blómstrið eina.

Hjálpa mér, Herra blíði! af hjarta géð-jast þér, eg svo gégn øllu stríði, orð þitt sem bannar mér; verk ráðvønd æ að yðja, aðstoða vyrðstú mig, með þeim svo ber tilbiðja, og bestann dýrka þig.

2. Géf, Faðir! krapt eg kunni, kéfja girnd vonda' í mér, ráðvendni æ svo unni, og finni náð hjá þér! afvega lát ei leiða, lost mig, né glæpa her, ei spott né ótta neyða, ótrúr að reynast þér.

3. Boð þín mér blessuð vísi, braut rétta lífsins a, hana mig feta fýsi, far-

sæld eilífri ná; styrk mig að vilja víña, verkin skyldu með trú, og æðsta umbun finna, er dygðum heitir þú.

4. Géf þú mér góðfúst hjarta, gagnast øllum sem best, aumka þann qvøl um qvartar, kjætast samheillum mest; ljúfum svo Jesú líkist, lund kjærleiksfullri með, farsæld þíns friðar ríkis, fæ eg þá glaður séð.

5. Géf að eg rétt ígrundi; góður að ert og vís, auðna mín allar stundir, af þér að gjørvøll rís. Þó sorg umhverfis hljómi, harðar ef raunir þjá, í lífi deyð og dómi, Drottinn! þig treyst' eg á.

## No. 339. (9)

Lagið: Kom, Skapari heilagi Andi!

Drottinn! áſtunda dygðir mér, daglega géf og boðorð þín; þú til ens góða þróttinn ljer, það veri besta huggun mín!

2. Viki eg þínum vegum frá, virðst þú í náð að benda mér; fyrirgéf breiskum, Faðir! þá, framvegis géf eg hlýðnist þér.

3. Ast þín føðurleg ætíð mig, upperfa skal að stunda dáð; vongóður kém eg þá fyri þig, þegar eg allt mitt vanda ráð.

4. Því ef eg dygða þræði stig, þolgóður freistíng yfirvinn; góð meðvitund þá gleður mig, Guð! hún er sælu pantur minn.

## No. 340. (10.)

Lagið: Adams barn! synd þín svo var stór.

O Herra Guð! þér heiður ber, með hjartans gleði og lotníng vér, til þín nú þánka rennum, dásamlegur í öllu ert, allt hefir mjøg vel til vor gért, þacklátir það meðkénnum, æ! lof, tilbeiðsla, áft og dýrð, eilífi Faðir sé þér skírð, Foður-náð fyrir þína, sem einka reyndist verndin vor, velferðar til hvert greiddi spor, því ber oss þock auðsýna.

2. Fyrir vort lífið þock sé þér, þín lofsverð náðar-gjøf sem er, og það af miskun þinni, heldur því við og hjúkrar að, Herra! en einkum fyrir það, ber oss með blíúgu sinni, þér þacka blessað þitt hjálpráð, að þú hefir af Fodur-náð, kristna menn þar til kallað, þig réttan Fodur þeckja vorn, þín verða farsæl óska-born, nú og um eilífð alla.

3. O! hvílík huggun er oss það, ega hvílíkann Fodur að, voldugann, vísann, góðann! fáfróðir, breiskir, veikir vér,

vinna fátt skynjum, sem oss ber, má oss því margt ofbjóða; svo er og varið vor-um hag, að víst er fjortjón nótt sem dag, samt þurfum síst að qvíða, ef — eins og hlýðnum børnum ber — með breytni góð-ri stundum vér, að þóknast þér og hlýða.

4. O Faðir! láttú elsku þá, sem øll-um heimi virðist tjá, upphvatníng æ oss vera, hreinskilni stunda hjartans mest, og hegðun alla vanda best, í þinni aug-sýn, Herra! að vér framgaungum ætíð hér, eins og ráðvøndum kristnum ber, og stundum mest sem megum, þinni lík-íng' og þóknun ná, þúsundfold náðar gæði þá, vís vér í vonum egum.



## IV. Trúrækni.

No. 341. (11.)

Lagið: Allir Guðs þjónar! athugið.

Heilagur Faðir himnum á! Høfundur trúarinnar, þitt voldugt orð oss vísar á, veg sáluhjálparinnar, lát oss trú rétta rækja hér, í ríki þínu svo að vér, þig sælir fáum finna.

2. Vertú, Jesú! vort lífsins ljós, leid oss á veginn sanna, unadsemd vor og ædsta hrós, æ sért, hjálparinn manna! sá traustid á þig setur fast, sist mun um eilífd fortapast, hreppir sæld himin-ranna.

3. Vor trú sé bygd, sem vera ber, vísdóms á ordum þínum, til enda lífsins allir vér, ávoxt verdugann sýnum; en nær vér røsum, Herra! hér, hjálp oss ad ecki føllum vér, né sídar sælu týnum.

4. Bråkadann sundur brjót ei reir, blis trúar endurnærdu, ydrandi sálna andvorp heyr, andans þeim huggun færdu; géf ad þér aldrei føllum frá, freisting er sæktr megn oss á, send þú líkn hjarta særdu.

5. O Drottinn! sem ad oss í hjá, uppbyrjad trúna hefir, ebl hana svo ad ødlumst þá, oss daudi, grof umvefur, endalok trúar, eilíft líf, hvar eptir heimsins mædu' og kíf, fagnadar gnótt þú géfur.

## No. 342. (12.)

Lagid: Kristnir menn! umfram allar tídir.

Þín sjást, ó Gud! um verøld vída, vísdóms, almættis, gædsku spor, jord, himin, árin ódt sem lída, allt hrópar:

mikill Guð er vor! hverful umbreytíng innir hert: óbreytanlegur Guð að sért.

2. Gjörvöll náttúran þannig þylur, þér dýrðar lofsaung ósjálfráð; mín sála gjædd með skynsemd skilur, þitt skipar öllu vísdóms ráð, og með trú, sem þinn Andi lér, upp til þín, Drottinn! lyptir sér.

3. Hvað er eg þess, að þori' eg senda, til þín, Alvaldi! huga minn, þú, sem ert, verður, varst án enda, Vera heilög og fullkomin? Þinn helgur Andi hjarta í, hreinskilnu býr, eg treysti því.

4. O! hvað þú mönnum öllum hefir, andsýnt föðurleg kjærleiks hót, með Anda þínum oss þú géfur, athvarf til þín af hjartans rót. Það sonar-traust vér feingum fyrst, fyrir þinn Son, vorn Jesúm Krist.

5. O! hvað veikann það hressir huga, að hefja klockva sál til þín; eckert mótlæti mig kann buga, meðan eg veit þú gætir mín; allt skapað birtir almátt þinn, allstaðar eg þinn kjærleik finn.

6. Nú sje jeg glöggt þín guðdóms merki, gæðsku, almætti, vísdóm þinn; hvert eg er einn, í værð eða verki, veit

eg að þú ert Faðir minn. Faðir! í þína föður-hönd, fel eg öruggur líf og önd.

7. Það er sú trú, sem hér í heimi, himininn opin sýnir oss; það traust, o Drottinn! gef eg geymi, guðrækni með, sem besta hnoss! við enda lífs mín viss er trú, við mér, sem Faðir, tekur þú.

---

## V. Elska og Traust til Guðs.

### No. 343. (13.)

Lagið: Sólin upprunnin er.

Hvað eru vinir, völd, vit, fjör og hreysti? hvað lífsins hellla fjöld? hann þeim lítt treysti, vel sem að veit: veikast allt burt, sem reykur, mótlætis mirk við el; mind skugga' eg horfna tel, þá ljós um leikur.

2. Hví treystum veikir vér, völt á heims gæði! glis stundlegt ekkert er, ánægju sæði, ókomins lífs, unaðar blóm, sem gefur, fyrst það hér böl opt býr, í beiskju lífi snýr, gröf yndi grefur.

3. Vor, sem hér æfast á, í reynslu standi, skilinu lífs skóla frá, skynsamur andi, fyrir víst veit, valt er gjörvallt í

heimi, en ædri oruggt hnoss, ánægju lífs ad oss, Guds mildur geymir.

4. Sannfæríng sífeld mann, sú á skal minna, lífs yndi hér ad hann, hvílkult mun finna; honum ad er, hér ætlud stundar vera, hann því nær sorg hér sá, samferdast gledi, má, rór bádar bera.

5. O Drottinn! einum þér, óhult eg treysti; géf aldrei grandi mér, glis heims né freisti; brøgd véla vond, velferd ei raski minni; legg mér æ líkn í neyd, létt hrigd, ad sæll vid deyd, eg føgnud finni.

## No. 344. (14.)

Lagid: Herra! þér skal heidur og lotníng' greida.

Gud, sem allri gæfu 'rædur minni, géf eg ætíd treysti forsjá þinni; vilji þinn æ veri minn og veit hvert sinni, unun í því finni.

2. Allt þín speki, elska, máttur leidir, øllum miskun sképnum þínum greidir; hví skal klaga hót um daga? Herrann lagar, gæfu lífs um leidir.

3. Mitt frá eilífd skapad hlutfall hefir, hvad sem býdur þú, mig frid' umvef-

ur; lón og mæðu, matst þú bæði, mér hjálpræði, Gud í ollu géfur.

4. Líki þér svo, lát mér ekkért granda, legg áuægju daga mér til handa; en ef vinna velferd minni vjel, eg finni, hjá þér huggun anda.

5. Þín náð band oss jardar gledji gædi, gædskan allteins skóp oss lífs vanqvædi; sjálfs ef eigi sok mig beygir, fáttur þreji' eg; þú ljer þolinmædi.

6. Missi' eg heill, sem mildin þín gaf blída, mótgáng þú ef vilt eg skuli líða; þá eg beidi, úr boli neydar, best munt greida, bót ei láta bída.

7. Mun brádt þrotid máské fjorid æda; mildi Gud, þitt verdi bod! þvi hæda, sé víst valin, víss mér talin — sú von er alin — hví má hel mig hræda?

## No. 345. (15.)

Lagid: O Drottinn allsvaldandi!

Einn dagur odrum tjáir, allir megum vér sanna þad, hverr sem þess gætinn gáir, og gjorvallri byggur skopun ad, mikill er, og mildur Drottinn, monnum tér, gædsku vottinn, gæda hver, gnótt er þadan sprottin.

2 Umbreytist allt í heimi, óbreytanlegur hann þó er, í öllu lífs andstreymi, ætíð honum því treysta ber. Náðargnótt, næga gæfur, nýhann þrótt, veitt oss hefir, dag og nótt, Drottinn náð umvefur.

3. Honum af hjarta treystum, hann er vor einka líkn í neyð, oss sínum endurleystum, eins mun hann verða líf í deyð, síst oss má, sækja mæða,, sældir þá, dýrðar hæða, honum hjá, hljótum æðstu gæða.

4. Framvegis, Faðir blíði! fulltingi þínu treystum mest, í lucku' og ángurs stríði, oss þín miskunin líkni best; um eckért þá, annað hirðum, enn þig sjá, mest það virðum, og himnum á, hjá þér búa' í kyrrðum.

5. Trúlyndum heitið hefir, hjálpráð oss mönnum öllum tjá, farsældar gnóttir gæfur, Guð vor! þitt orð ei bregðast má. Sælu þú, þínum géldur, þjóni'er trú, stöðugt heldur; hugsan sú, huggun æðstu veldur.

No. 346. (16.)

Lagið: Kristnir menn! umfram allar tíðir.

Trúfasti Guð! eg til þín kalla, titrandi birtist fyrir þér, og bið um

miskun æfi alla, aldrei að gleyma viljir mér; eg veit þú heyrir andvorp mín, og sendir hjálp af gæðsku þín.

2. Öll mín þegjandi andvorp þeckir, og tár mín sjer þú leyndum í, mér hjálpar best nær aðrir ecki, og hardt umspennir neyðin því; þegar mér veiklast von þú sjer, virðst þá huggun að senda mér.

3. Þó að eg eigi þecki tíðum, þína alvísu stjórn á mér, athvarfs samt leita' í eymdum stríðum, einúngis skal, minn Guð! hjá þér; veikur lítt staðfast við eg má, vel lát mig stríða' og sigur fá.

4. Á þér trúnaðar-traustið festa, tryggvi leiðtogi! veittu mér, hvert sældin eða sorgin mesta, frá sjálfum þér að höndum ber. Dagfar mitt prýða dygðum géf, Drottinn! á meðan hér eg tef.

5. Fagnandi þá eg fús meðkénni, föður-ást þína sældum í; eins þó mótlæti mig umspenni, mun eg rólegur taka því; géf aldrei skiljist eg við þig, æ, gódi Fadir! bænheyr mig.

## No. 347. (17.)

Lagið: Faðir vor, sem á himnum ert.

Á Guð eg treysti einann þig! ástríkur jafnan leiðir mig; og gleðst af Föð-

ur-umsjón þín', eg veit í náð þú sjer til mín, ønd minni rósemd eykur það, ángist og neyð þá þreyngir að.

2. Hverr himna Drottinn ástvin á, óqvíðinn lífs veg gengur sá; ei sturlast hann þó eymdin horð, að honum kreppi hér á jörð; senn veit hann reynslan úti er, endast með henni neyðin hver.

3. Líðsemd veit mér, minn góði Guð! að geymi' og stundi vel þín boð; að setja megi trú og traust, til þín hug-glaður efalaust, uns sælann himna fæ eg frið, og fagna þína miskun við.

4. Forsjónar vegi fæ eg þá, Faðir! þína með undrun sjá; þú andar-gagn dýrt mattir mitt, miklist um aldir nafnið þitt! því vís og góður æ þú ert, athvarfið vort í raunum sért.

## No. 348. (18.)

Lagið: Um daudann gef þú, Drottinn! mér.

Allt hvað tilveru af þér hlaut, alheims verndarinn góði! orlætis þíns og nægta naut, af náðar dýrstum sjóði; oss mönnunum þó allra mest, auglýsir gæðsku merkin flest; því er skyldt þøck hverr bjóði.

2. Vort þú oss daglegt veitir brauð, vísdóms og gæðsku Faðir! aðstoðar best í allri nauð, á þig vér treystum glaðir, og þó hjálp frestir eñ um hríð, á þér géðfeldri munum tíð, frelsinu fagna bræðir.

3. Meir er þó í afnan miskun þín, meñ þegar neyðin særir, huggun í sorgum, hjálp í pín, harmþrúngna gleði nærir; þegar aðkémur kaldur deyð, qvíða þurfum vér engri neyð, frelsi og líf hañ færir.

4. Í lífi, deyð og dómsins tíð, Drottinn! oss náð þín gleður; þér sé um aldir þökkin blíð, þér mannkyn lofgjörð qveður, að þegar hérvist endast á, í himna dýrð þér sjálfum hjá, sælu eilífri tjedur.

## No. 349. (19.

Lagið: Heimili vort og húsin með.

Guð þig að elska góði minn! gagn' er mitt bæði' og skylda, auð heims mót því og upphefð finn, alls eckért mega gylda; sannarleg elskan sjálfur ert, sérhver þín skipan vottar bert, miskunargéð þitt milda.

2. En girndir tíðum ginna mig, og gjöra skynsemd blinda, veraldar glis á villu-stig, vill tæla mig og binda, hégóm-

ann við, en hversu þá, heilagi Guð! eg líta má, svívyrðu minna synda?

3. Örvænta skal eg ecki þó, en þinnar náðar bíða, flýa til hans, sem frið mér bjó, fyrir mig deyð nam líða, hann þá fullvissu veitti mér, að væri' eg dýrmætur fyrir þér, Jesús Lausnarinn lýða.

4. Jeg veit að komstú, Jesú minn! á jörð að Drottins ráði, matur og dryckur það var þinn, að þíns Föðurs vilja gáðir; fús deydir krossinn festur á, fæ eg af þessu gladur siá, að heitt oss elska náðir.

5. Elsku Guðs finn eg allteins hér, að Son sinn gaf oss kjæra, elsku til hans því öllum ber, til enda lífs að næra. Að eilífu skal eg elska hann, útvöldum með í dýrðar rann; honum ber eilíf æra.

## VI. Ráðvendni.

### No. 350. (20.)

Lagið: O Faðir himneski' og eilífi Guð!

Tíð og líf gégnum eg fagnandi fer; frjáls skunda vegferð, sem ætlud er mér; skérðir ei elli né áratal par, auðnu sem hjartanu skenkt var.

2. Meðvitund rósom að réttvíst, dygð, rækt þar æ finna og velja sér bygð; frið minn og eilífann fögnuð ei ná, forlog að trubla, né tíð má.

3. Þú, sæla rósemð í minni sál! mér, morgna þá sól roðar, heilsa blídt fer, erviðið blessar heill, ánægju með, og svæfir þreyttann í nátt-beð.

4. Himnaña Guðs til því hugur miñ rís, heit viñur einlæg við bænir og prís; gæðskunnar boðorð að geyma, mér lið, Guð bið eg senda og tilbið.

5. Sjái eg mæðunnar son líða neyð, sorgunum hlaðinn og þjáðann, en greið, hjálp mín hann frelsar, þá inndæl hans er, auga og hjarta glöð þöck mér.

6. O! hversu inndæl minn ánægja barm, innteknr, hugsi'eg: nú sefa'eg hans harm! áður enn hjálpa' og eptir mig finn, eins og frá sjálfum mér numinn.

7. Huggar það mig við þá mæðu eg sje, mildastur Faðir að lætur í tje, sképnum hvað hagar, hans vísdómur veit, vel öllu skipa um hvern reit.

8. Friðargjöf himnesk, er fyllir mitt brjóst: að fús er eg skyldum leynt gégna sem ljóst, boðar mér, sæl að á bakt við grøf, búin sé helgudum lífgjøf.

9. Traust það og gjørvøll á Guði von fest, góðri með samvitsku' er styttan mín best. Skylda! glaðt samvitsku boðorð! þú ber, bjart ljósið efans í nótt mér.

10. Eg þángað fylgi, sem ávísar mér, engar því festar mér halda frá þér, engri mig nøgun skér umlíðin tín, enganu af framtíð eg geig bið.

11. Réttann þú leiðir mig ráðvendnis stig, rans yfir hégómlegt dáranna' og mig, til manna fremdar og fagnaðar ber, fyrir því heilsa' eg og lýt þér.

12. Mig þvíngun leysir þú mannlegri frá, mig huggar sakleysi lífsins stig' á; mig styrkir hugprýði framgáng að fá, fullkomnun tignara lífs ná.

## No. 351. (21.)

Lagið: Faðir vor, sem á himnum ert.

Herra! sem boðað hefir mér, heilagt líferni' að gédjist þér; mitt líf þér helga hjálpa þú, helgunar-krapti mig útbú, svo að ráðvendni ljóst og leynt, lýsi jafnan mitt dagfar hreint.

2. Ef þú mér, Drottinn! leggur lið, lost og ódygð að skiljast við, eg mun ástunda eins og ber, allt sem eg veit að

líkar þér, og trúr uns þrýtur æfin mín, med alúd rækja bodord þín.

3. Sá dygda feta feril ann, farsældar leid æ gengur hann; ad sídur skeiki, eg því skal, adgætinn vanda rád og tal; vor Gud! leidtogi vertú mér, von-gódur skal eg treysta þér.

4. Olucka megnar engin þá, ánægju mér ad ræna frá; daudann mun eg ei hrædast hót, honum örnggur taka mot, og hverju sem ad höndum ber; hjálp og nád þar til veittú mér!

---

## VII. Réttlæti, Gódsemd.

### No. 352. (22.)

Lagid: Heimsins Stýrir forsjón fasta.

Géf oss, Fadir! tvíllaust trúa, tíd ad lientir fjör og stétt, oss á jörd ad undirbúa, eilífd, heill og sæln rétt; lærdóms skóli líf ad er, leid til himins gangnum hér; þar réttlæti og gædsku gledur, gódann dygdar umbun medur.

2. Öll þín stjórnan hér í heimi, hátign þinni lýsir bert; engu mild ad gædskan gleymi, Gud! réttlátur, Fadir sért. Þín réttvísi og gædska gód, géfur bod og

dæmið þjóð, góðs og réttar öllum unna, og sem best þér líkjast kunna.

3. Oss hvað kjósum, öðrum veita, eins réttlátur Kristur bauð; af því vernda eigum leita, annars sæmdir, rétt og auð; hefja' upp ydn, en heiðra dygð, hata ofund, róg og lygð; hann, er eblir sérhvers sóma, sjálfur ödlast væga dóma.

4. Dóma ber oss velja væga, virða bræður hér á storð; góðum heit um gæfu næga, gaf og miskun Drottins orð. Sama Föður eigum að; allir að sælu képpum stað; allir marga bresti berum; bágt er að dylja: veikir erum.

5. Réttvís Guð! lát rétt á jörðu, réttann leiða menn á stíg; ei með bræðra ofur hörðu, áfelli þeir dæmi sig; allir þurfum vægðar vér, veit oss rétt, sem hverjum ber, virða hér, að sæld og sómi, sé oss vís að efstum dómi.

---

## VIII. Polinmæði.

### No. 353. (23.)

Lagið: Kristnir menn! umfram allar tíðir.

Ef vér í þúngar raunir rötum, ráðstöfun Drottins tökum vel, og þolin-

mædi aldrei glötum; álítum vott um Fødur-þel, ad mildur typtar, oss því ann, og til betrunar leidir hann.

2. Þó mædu finnum þúngt ad bera, þjáníng ógæfu teljum vott, hún til betrunar víst má vera, oss valid medal hent og gott. Þad traust, ef adber þraut og kross, í þolinmædi styrkir oss.

3. Ovolinmædi ollir meiri, armædu, skapar møgl og qvein, þeim er vid reynslu illa eirir, afmældann skérf og sorga mein; en þolinmódum af þeim rís, ædri fullkomnan, huggun vís.

4. Samvitsku þegar geymum góda, gérsemi dýrast jørdu á, mótlæti eckért mun ofbjóda, menn best rósamir finna þá, í ordu náttúru allt ad fer, edli sambodid hennar er.

5. Fullvissan, vel um stund ef strídum, strax eilífd brosi glod oss vid, ollum burtfeykir ángurs hrídum, ánægju blessar værd og frid. Sem reyk hún heimsins reiknar glis, rauna skammvinnann þúnga sis.

6. Oss Jesús kénndi ljúfur lída, lífs og deyandi krossi á, og vilja Fødurs besta bída, byljum uns létti sorga frá; þeim,

sem með honum hugrór leið, heiður við sigur eptirbeið.

7. Hvað eru fánýt heimsins gæði? hvað stundleg þjáníng, böl og hrigð? allt fis að reikna eru bæði, mót ædri dýrð í sællra bygð; þess vegna rór eg þygg og ber, það Faðir ástkjær velur mér.

## No. 354. (24.)

Lagið: Gæðsku Guðs vér prísum.

Vor Guð á himna hæðum, heilagi Faðir kjær! í hverskyns hrigð og mæðum, hjálp þína reynum vær, um vora æfitíð, ef þig elskum af hjarta, á oss mun trúfest skarta, Guð vor! þín gæðskan blíð.

2. Af elsku oss til bótar, agar þú, Faðir! oss, svo vorumst lesti ljóta, leggur á raun og kross, hjálp veitir hirtíng með; því er skyldt þessu tækjum, með þökk og jafnan rækjum, þér hlýðið þolugt geð.

3. Ef lætur oss tilfalla, andstreymi, sorg og neyð, þína send aðstoð alla, æfinnar stunda leið, trúrækni traustí með, svo að þolgóðir þreyum, þar til burt héðan deyum, þitt prísum gæðsku géð.

4. Síst munu heimsins hrigdir, hér mega jafnast vid, eilífar yndis bygdir, og ædstann dýrdar frid, sem oss þinn Sonur bjó, viljugur þá hann þoldi, þjáning á sálu' og holdi, og qvalinn á krossi dó.

5. Hans þolgéds dýra dæmid, dygd og lífernid hreint, oss fremur öllu sæmi, og hvetji ljóst og leynt, feta hans fót-stig í; vilji þinn á oss verdi, vor Gud! þó neyd ad herdi, og mótgángs skyggi ský.

6. Ef þolinmódir þyggjum, þad sem ad höndum ber, og heilla einum byggjum, örugga von á þér, síst mun oss bregdast sú, veit oss því vel ad strida, og vilja þínum hlýda, med þolugri þreja trú.

---

## IX. Hreinlyndi.

---

### No. 355. (25.)

Lagid: Túnga mín af hjarta hljódi.

Gud oss hér í sambúd setti, svo vér gledjumst brædrum med, undir hverr med ödrum létti, ebli lán og hressi géd; ástúd geymi, hér í heimi, hreinlyndt þelid öllum tjed.

2. Líkhams sama limir erum, lands innbúa samfélags; því til heilla hradir verum; hverr svo annars leiti hags, ei med flærdum, eydum værdum; endurgjaldsins minnumst dags.

3. Þeim í skopun veit sér vera, veitta manna tignar stétt, illa sómir innra bera, úlfa skap og refa prett; kjassi ríkur, kjæun er svikur, Krists svikara líkist rétt.

4. Hverr einn því af hjarta mæli, hreinann sannleik brædur vid; ei med flærd edur ofund kjæli; elski dygd, en stundi frid; ödrum sóma, unni' og blóma, egin sæmda rati mid.

5. Hreinlyndt, Drottinn! hjá oss skapa, hjarta' og minna vyrdstú á, manna varast vyrding tapa, vélum af sem leida má. Sælir einir hjarta hreinir, heilagt fá þitt auglit sjá.

---

## X. Blidlyndi.

### No. 356. (26.)

Lagid: Hvar mundi vera hjartad mitt.

Oll er þín ræda elska' og nád, ástríki Gud! til mín, býdur hjálprædis bestu rád, oss blessud gædskan þín; hýrust

(23*)

blída um hvert eitt lád, af hátign þinni skín, illa því sómir beiskjan bráð, bræðrum á milli sín.

2. Lát oss ástunda ad líkjast þér, ljúfmennska sé oss kjær, svo alúd, blídu og hógværd hér, hverr ødrum tjáum vær; øfuglig svør og ordin þver, umgengni þokist fjær, en hinn í þína ætt sig sver, øllum sem gódsemd ljær.

3. Frelsarans dygda dæmi á, daglega festum sjón, øllum sem gjørdi elsku tjá, engum baud stygdar-tón, aldrei hóglyndis blídu brá, þó brixla heyrdi són, óveitta lét sér aldrei frá, aumíngjans fara bón.

4. Þvílíkt blídlyndis dæmi dýrt, Drottinn Jésú! eg bid: láttú þad á mér skína skírt, skaplyndis bæta sid; vinsemd æ gjøri vidmót hýrt, velunnan sérhvern vid, svo høndlad fáum hnoss órírt, hjá þér í dýrdar frid.

## No. 357. (27.)

Lagid: Einn Herra eg best ætti.

O Jesú! oss sem hefir, afrekad lausn og grid, þín gudleg nád oss géfur, gledi og andar frid, sjálfann þig lítilægd-

ir, og leidst á krossi deyd, vid Fødurinn ofs frid-þægdir, fær því ei grandad neyd.

2. Audsýna øllum nádir, ástríki og hógvært géd, hlýdinn Guds vilja gádir, gædsku' og blídlyndi'med, fjandmønnum fridar beiddir, Fødur þinn krossi á, og vina eymd úrgreiddir, á þegar nockrum lá.

3. Blídlyndis dæmid dýra, deyandi'og lifs, er þú, audsýndir, ofs lát stýra; ástundan vor skal sú: þinn dygda feril feta framast sem kunnum vér, veit ofs þad vilja'og géta, vor Gud! ad líki þér.

---

## XI. Hóffemi.

---

No. 358. (28.)

Lagid: Kristnir menn! umfram allar tídir.

Um daglegt braud þú Drottinn bidur, dugir þér ei, þó veitist nóg, olla því mun þinn óhófs sidur, eydir meiru enn vinnur plóg; sparseminni sá aldrei ann, ásaka má ei gjafarann.

2. Láttú þér nægja þad sem þyggur, þegid stunda þú nota rétt; mun þá veitast hvad mest áliggur, medal til gengis

hóf er sett; en óhóf sendir örbirgð þér, opt þinni velferð skaðvænt er.

3. Oss fæði' og klæði látum lynda, þó leggjum hug á sælli kjör; auðlegð opt dró til óhófs synda, en við sællísi spilltist kjör; gjörum því mun á girnd og þörf, geymd er oss heill við hóf og störf.

4. Ofþýngja hjörtun géf ei gjörum, góði Faðir! um lífsins stund, óhófi með, en framar förum, forsjállega með þegið pund; vellyst syndugri vísum frá, verðugri gleði lát oss ná.

## XII. Ofund.

### No. 359. (29.)

Lagið: Guðs Son kallar! komið til mín.

Guð, sem Faðir oss gæfu ann, gáfum, sæmd, láni skiptir hann, eins og bezt hverjum hagar; annara heill hverr yfir sá, ofsjónum, vesæll heita má, eitrun þann öfund nagar.

2. Við sig hann aðra samanber, í sæld og verðúng, telur sér, ójöfnuð einatt veittann; ásakar vísdóm æðstann hátt, auga rángsnúnu lítur þrátt, sæmd, blessun bróður skreyttann.

3. Ofunda dýr eins mundu mann, mørg þeſſu líkt, en Engla hann, allt tignar ædri beidaſt; endanleg vera, ſem ei ſá, ſinn gæfu ſkamt beſt henta, má, af ofund illa leidaſt.

4. Brennanda líkt vid eld því er, ofund, þá menn hún qvelja ſer, ánægju á burt flæmir; en villi-ſidum býdur bygd, úr brjóſti víſar æru' og dygd, og manna tign óſæmir.

5. Sín egin ſvípa ofund er, adra hvad tignar, gledja ber, hún æ med harmi litur; af heipt því nagaſt, hana ſkér, hvad gott og loflegt ord af ſer, en róſemd hvergi hlýtur.

6. Ogæfu fagna, olla kann, þeim, yfirburdi hvers hún fann, frá heillum Engla felldi; yfir oſs ſynd og deyd hún dró, dygdugum Jeſú píſlir bjó, ſaklauſan dauda ſeldi.

7. Hverr fær útmálad illt þad allt, ofund ſem verkar þúſundfaldt, ødrum til bøls og baga? óróa vekur eymd og ſtríd, ánægju hrekur burt frá lýd, og lífſins eitrar daga.

8. O! hverſu manna er hún ſtétt, áqvørdun, ſkyldu gagnſtæd rétt, og því af ødrum kjóſum! hvert mun þá vitſka,

heldur, dygð, í hnjóði falin, ofund, lygð, af hverju oss þó hrósum?

9. O! hversu Jesú er hún ást, ólík, hvers dæmið best mun fást, gott vañ og meinlu græddi; hann bræðrum unna, hjálpa' í nauð, hógværð óvinum votta baud; svo breytti, sem hann fræddi.

10. O! hversu Drottins er hún ást, ólík, sem hvergi skepnum brást, hún allann heiminn gleður; ránglátum upp hans rennur sól, réttlátum líkt, og sérhvert ból, regn frjófsamt gæðum gleður!

11. Kénn oss ó Guð! þitt geyma vel, gæðskuríkt boð, hreint bræðra þel, í ást og alúð sýna; og manna virða æru' og stétt, ofund fráíneyddum stunda rétt, svo oðlumst þóknun þína.

## XIII. Jesú Eptirbreytni.

### No. 360. (30.)

Lagið: Hjartað, þánkar, hugur, sinni.

Góði Jesú! lát mig læra, að líkjast þér, sem best eg má, vegsemd mín það er og æra, aðstoð virðst mér breiskum

tjá! ef lockar synda lysting mig, líta, Jesú! géf mér þig, dæmi þitt á dygd mig hvetji, dýrstum þér svo fylgt eg géti.

2. Þú, hvern dýrka andar ædstu, ofan til vor komst á jord, leidst þolgódur lægíng stærstu, lemstur, sár og bondin hord; allteins géf í audmýkt hér, ástundi' eg ad líkjast þér, hvert lucku brest eda lán þú sendir, ljúft sé mér af þinni hendi.

3. Elska heitust upp þig hvatti, erindi framqvæma þitt, eptirlæti mesta mattir, ad mañkyn yrdi' af syndum qvitt; unn mér kall mitt rækja rétt, rádvondum í minni stétt! géf mér þar af gledi hljóta, ad gjora odrum mest til bóta.

4. Fyrir líf og ljós ad senda, laun þú hrepptir spott og neyd, trúr þo reyndist allt til enda, er þú leidst hinn stránga deyd, eins á krossi eñ badst þú: æ þeim Fadir! forlát nú! heimur íllt fyri gott þó gjaldi, géf eg trú og sigri haldi.

5. Fodurs vild þig fúsu gédi, sólst þá mæddi qvolin sterk, hans á fund þú fórst med gledi, fullkomnad vid lausnar verk; helstríd þá ad hondum ber, Herra! géf eg líkist þér, svo ávoxt pínu odlist þinnar, ædstu gledi sálar minnar.

## No. 361. (31.)

Lagid: Nú bid eg, Gud! þú nádir mig.

Sæll er sá mann í heimi hér, hylli Drottins sem ablar sér, elskar, tilbidur, heidrar hann, Herra sinn Gud og Skaparann, grandvar ad sinni gáir stétt, gagnsemd medbrædra stundar rétt; lífsferli Jesú fylgir sá, farsældar nýtur himnum á.

2. Sæll er sá hófsemd heldur vid, hegdun stillta og gódann sid; hvíad allsháttar óhóf kañ, andlegum heillum svipta mann; gódfúst og blídt sá lyndislag, í líferni vottar sérhvern dag, rétta leid dygda heldur hann, hógværdar-skeid, sem Jesús rann.

3. Trú og þolgædi' ad temja sér, til ædri heilla vegur er; óþolinmædi' og óró því, eymdirnar fleiri steypir í. En sannleik elska' og una vid, unna hreinskilni' og dygda sid, af Jesú lífi læra má, ljós sé þad manna vegum á.

4. Kjærleikans dygd sá ætíd añ, eptir farsældar gotu rann; hræsni hvergi né ágirnd á, né undirferli rasar sá; eitri þúngada øfund hann, illgirni líka ford-

ast kann; ad Jesú dæmi gjorir gott, góð=
ann mannelsku sýnir vott.

5. Ástríki Fadir! ebl hjá mér, allar dygdir, sem líka þér; lastanna strída lock-
un gégn, léna mér nægann krapt og megn, þann svo lífs feril feti' eg hér, sem Frelsarinn Jesús kénndi mér; þá mun eg sídan finna' og fá, fullsælu þreida himnum á.

## No. 362. (32.)

Lagid: Kristi! vér allir þöckum þér.

Lausnari! dæmid láttú þitt, leida mig hverju sinni, ad laga gjörvallt lífid mitt, lífs breytni eptir þinni; líferni þitt og lífsins ord, lýsi mér ætíd hér á stord, svo réttann feril finni.

2. Sá þín lídþursi leita vann, líkn sann og ædstu mildi, óbænheyrdann létst aldrei þann, andvarp hans heyra vildir, en hverju tídum erum vér, ólíkir, gódi Je=sú! þér, ad gjora gott sem skyldi.

3. Fødurnum hlýdinn varstú vel, veg=sama nafn hans gádir, og hverjum manni hjarta-þel, hógvært audsýna nádir; en hrokafullt vort hjartad er, á høndum oss nær luckan ber, vinir opt verda smádir.

4. Þú girntist Föður þínum best, þjónkun og hlýðni veita, allt að kross deyð, og öllum mest, elsku þú sýndir beita; en vér þín blessuð boðorð tídt, brotið höfum og syndum hlýdt, forsómað frelsis leita.

5. Ovina grimmust íllska og slægd, ei vakti reiði þína, blíður fyrir þeim baðst um vægð, er beisk þig særði pína, en hjá oss tíðum upptendrast, íllgirni, reiði, hefnd og last, menn þá oss mótgjörð sýna.

6. Þín dygða kénníng klár og hrein, krapt sinn auglýsti víða, þitt heilagt líf, í hverri grein, hjartans ástsemi blíða; eins géfoss vilja, abl og magn, að efla bræðra sanna gagn, og lifnaði lærdóm prýða.

7. Allir biðjum þig, ó Jesú! aðstoð oss milda senda, dygð að varðveita' og vora trú, varfærnum lífs til enda; vér í þín fótspor fetum þá, fullsælum uns þér sjálfum hjá, veitist að lokum lenda.

## XIV. Utfarar-Sálmur.
(á Látínu qvedinn af *Prudentius.*)

### No. 363. (33.)

1.
Jam mœsta quiesce querela,
Lacrymas suspendite, matres!
Nullus sua pignora plangat,
Mors hæc reparatio vitæ est.

2.
Quidnam sibi saxa cavata?
Quid pulchra volunt monumenta?
Res quod nisi creditur illis,
Non mortua, sed data somno.

### Sami Sálmur á Islendsku,
(útlagdur af Dr. *M. Stephensen.*)

1.
Öll harma-qvein hætti ad sinni,
Haldi Náúngar tárunum inni!
Ei ber sofnadann ástvin ad gráta,
Lífs endurbót daudann má játa.

2.
Hví skrautbúna legstadi lítum?
Leidin á ristar minníngar ítum?
Merkja þau ad mold þar umvefur,
Mann, sem ecki' er daudur, en sefur.

3.

Nam quod requiescere corpus
Vacuum sine mente videmus,
Spatium breve restat, ut alti
Repetant collegia sensus.

4.

Venient cito sæcula, cum jam
Socius calor ossa revisat,
Animataque sangvine vivo
Habitacula pristina gestet.

5.

Quæ pigra cadavera pridem
Tumulis putrefacta jacebant,
Volucres rapientur in auras
Animas comitata priores.

3.

Hví, liggja þó lítum nú auðann
Líkham, fjeri' og mannviti snauðann,
Æðri vit saman aptur hans leita,
Innan skamms honum skilníng að veita.

4.

Hann glaður um skammt fær að finna,
Fornann il vitja beinanna sinna;
Ummindaða eldri mun þyggja
Endurlífgaða veru að byggja.

5.

Líkhamir þeim legstaðir skýla,
Liðnir, þúngfærir, rotnir, sem hvíla,
Fyrri sálum fylgð munu veita,
Flug-hraðir í hæðir uppleita.

6.

Sic semina sicca virescunt
    Jam mortua jamque sepulta,
Quæ, reddita cespite ab imo,
    Veteres meditantur aristas.

7.

Nunc suscipe, terra! fovendum,
    Gremioque hunc concipe molli!
Hominis tibi membra sequestro,
    Generosa & fragmina credo.

8.

Animæ fuit hic domus olim
    Factoris ab ore creatæ.
Fervens habitavit in illis
    Sapientia principe Christo.

6.

Svo dauð, grafin, fölnuð í foldu,
Frækorn endurlifnuð úr moldu,
    Fagur-minduð grös framkoma sjáum,
    Fyrri seilast að skúf-stengum háum.

7.

Jerð! tak nú við líkhama liðnum,
Legg hann þér í skaut, vafinn friðnum.
    Limi manns þér til vöktunar vel eg,
    Hans veglegar leifarnar fel eg.

8.

Hann var sálar herbergi forðum,
Hver minduð var Drottins að orðum,
    Í þeim báðum guðleg hér gisti,
    Greindin ljent af höfundi Kristi.

9.

Tu depositum tege corpus,
Non immemor ille requiret
Sua munera fictor & auctor,
Propriique ænigmata vultus.

10.

Venient cito tempora justa,
Cum spem Deus impleat omnem,
Reddas patefacta, necesse est,
Qualem tibi trado figuram!

9.

Hyl, Jørd! geymdu látinn líkhama;
Lán heimta mun ógleyminn sama,
Og sér skilaða Skaparinn bjóða,
Skugga-sjá sinnar íminðar góða.

10.

Fljótt líður til fagnaðar tíða,
Fyllir Guð þegar alla von lýða.
Opin þá mind aptur skalt greiða,
Sem andvana hér gjørum leiða.



# Registur

yfir Sálmaná, eptir Stafrofs röd, med vidsettum Skáldanöfnum flestra skammstöfudum *).



*) Athugandi vid þetta Sálma-Registur er: Ad Skáldanna nöfn finnast hér skammstöfud útundan hverjum Sálmi, hvar menn med vissu gátu þau tilnefnt; en vid gamla Sálma, hverra höfundar þóktu óljósir, stendur einúngis * aptan vid, og hvar þessum er vid Sálmavalid til Bókarinnar breytt, er skammstafad nafn þess, er hvad mest þarad vann, aptan vid *, eda tveggja, ef tveir þarad áttu hlut.

## Skammstafanir

við Sálma-röðina merkja fylgjandi Skálda nöfn, sem Sálmana hafa upprunalega qveðið, útlagt eða lagað, nefnilega:

A. J. Arnór Prófast Jónsson.
Grönd. Assessor Benedikt Gröndal.
Chr. J. Christján Prófast Jóhannsson.
D. Sch. David Schéving, Stúdent.
E. J. Einar Prest Jónsson.
E. S. Einar Prófast Sigurdsson.
G. P. Grím Prófast Pálsson.
G. T. Gudmund Capellán Torfason.
G. Sn. Gunnlaug Prest Snorrason.
G. V. Geir Biskup Vídalín, R. a. Dbr.
H. J. Hallgrím Jónsson, Diákna.
H. P. Hallgrím Prest Pétursson.
H. R. Hálfdán Prest Rafnsson.
J. Esp. Jón Sýslumann Espólín.
J. H. Jón Prest Hjaltalín.
J. J. Jón Prest Jónsson, til Grundar og Mödruvalla.
J. O. Jón Prófast Ormsson.
J. Þ. Jón Prest Þorláksson.
M. St. Dr. Magnús Stephensen.
O. E. Odd Biskup Einarsson.
O. I. Olaf Prest Indridason.
O. S. Olaf Prest Sigurdarson.
S. J. Sigurd Prest Jónsson.
St. J. Stein Biskup Jónsson.

M. Stephensen. Dr.



